Min. fyrre (at Deige edur Nottu) þegar Olldiñ er liden, hellduren þa hun byriadest. Mætte einhver ætla, ad þad være ecke so hægt ad vita, hvert ad være Aar Tunglalldar, edur Gillinital, at sierhveriu þvi Aare, sem yfer hañ kemur; Eñ þad er alhægt fyrer hvern eiñ, sem nockra giætne hefur at Søkunum, og er einusiñe bwen ad vita, hver Vetur Alldar yfer stande; Þvi eiñ kemur epter añañ, þar til Olldiñ er komin i kring.

Til Dæmis.

Yferstandande Aar 1737. er hid 9da Tunglalldar Ar, og þeß vegna Gillinitaled og so 9. Ad aare komanda 1738. verdur þad, ef Gud lofar, 10. og Aarenu þar epter 1739. 11. Og so fiolga Tunglalldar Aren alltid meir og meir, epter þvi sem Artal Christi fiolgar, þar til Ollden

er

er ƿte Ao. 1747. Byriast þa eñur aptur 1748. og so framvegis, so leinge sem Gud hefur þolinmæde yfer þeß- um Heime. Þetta kañ hver eiñ ad taka i akt, sem Fingra Riimed vill brƿka sier til Nytsemdar, og þarf honum þvi alldrei ad slaa feil, hver Wetur Tunglalldar sie, aa þvi og þvi Are. Eñ i fall, ad nockur kuñe ad vera so gleimeñ, ad hañ mune ecke hver ad sie Wetur Tunglalldar, nær hañ huxar ecke epter þvi um heillt edur haalft Mißere, sem honum hef- ur sagt vered; Eda hañ vill kañske grenslast epter, hvert verda mune Gillinitaled, aa epterkomande Tim- um, ad margra Ara Freste, þa vil eg syna her þad Medal, sem aller kuña ad brƿka, til ad fiña Gillinital, bæde aa nærverande, og lika epterkoman- de Tima: Er þad uppdregin Hond, med sijnu Toluletre aa Fingrunum, sem epter fylger. Ut-



1.
1720.
2.
1740.
3.
1760.
4.
1780.
5.
1800.
6.
1820.
7.
1840.
8.
1860.
9.
1880.
10.
1900.
11.
1920.
12.
1940.
13.
1960.
14.
1980.
15.
2000.
16.
2020.
17.
2040.
18.
2060.
19.
2080.
X.

## Utskijring þeß, sem Hondin med sier ber.

Her sier þu, miñ Vin, fiorar Fingur þeirrar vinstre Handar, med Rotunum hvers þeirra under, og Ulflids-Bodvunum þar upp fra, settar med Tolum, sem standa a 19. Stødum, adrar stærre under, adrar Miñe fyrer ofan: Teikna hverutveggiu, Ar, bæde yferstandande Alldar og lika þeirra, sem epter koma: Tolustafurin 1. sem situr fremst a Gom Wisefingursens, merker þad fyrsta Ar i hverium 20. 2. þar uppfra, a sama Fingre, añad: 3. þad þridia; og so þijder hver Talan epter adra, so mørg Ar, um alla uñ lidna Tijma, fra Ao. 1700. og epterkomande, allt til 2080. sem þær hafa Fiolldan i sier, til þeß 19. eru komner, er standa a Root Litlafingurs.

Sid-

Sidan er viked aptur a Goom Viisefingurs, þar standa 1720. a Midlid 1740. a Efstalid 1760. a Rooteñe 1780. a Wedvanum 1800. Þadañ lijta Meñ a Goom Laangafingurs, hvar ed standa 1820. og so lid af lid, Fingur epter Fingur, þar til komed er a Root Litla Fingurs; þar standa 19. yfer 2080. Eñ i Midium Lofanum X. Nu vil eg sijna, hvernin þessar fiogra Fingra Tølur eiga ad brwkast til ad finna Gillinitalid a hveriu Are, fra 1700. allt til 2080. og jafnvel leingur. Kañ þad audvelldlega ad ske og þad i snøggvu Bragde; Þvi so miked sem ahrærer þær smærre Tølur, sem standa yfer hinum stærre, þa giøre eg ecke añad, eñ legg X. sem eru i Loofanum, vid hveria eina; Summan, sem þar af giørest i hvert siñ, sijner Gillinitaled a hveriu Are;

Eñ

Eñ verde Summan meire eñ 19. þar skal kasta i burt 19. Það sem þa verdur epter er Tungl-Alldar Ared.

Til Dæmis.

Eg vil vita hver Wetur Tungl-alldar hefur vered Ao. 1701. I. sem stendur fremst at Góm Viisefingurs, lagdur vid X. i Loofanum, giorer 11. þeß vegna var Ellefte Vetur Tungl-alldar Ao. 1701. Sama er Adferd-in at hinum Arunum, sem epter koma, allt til 19. Jeg legg X. vid hveria eina Tolu, og ef Summan verdur meire eñ 19. þa kasta eg 19. i burt, eins og aadur er sagt. Exempl um þar uppa. Jeg vil vita hvert vered hefur aar Tunglalldar Ao. 1718. 18. sem standa at effsta Lid Litlafingurs uppyfer 2060. og X. i Loofanum, giora 28. 19. kasta eg i burtu, og verda þa epter 9. sem merkia Ar Tunglalldar 1718.

Nu

Nu viik eg leingra fram̃ epter Olldeñe, og vil vita hver ad sie Vetur Tunglalldar 1720. 1740. 1760, og so fram̃vegis, allt ad 2080. Giore þvi ecke annad, eñ legg þa Tolu, sem stendur einstok yfer þeirre stærre Tolu saman vid X. i Loofanum, Summan syner Tunglalldar Ared, eins og til forna

Til Dæmis.

Vilie Meñ vita hver ad sie Vetur Tunglalldar 1720. I. sem stendur uppyfer þeirre Tolu, og X. i Loofanum, giora II. sem syna Tunglalldar æred. 1720.

Añad Dæme.

Einhver kañ ad spyria, hver Vetur Tunglalldar mune verda. 1780. Uppyfer þessare Tolu, æ Rot Viisfingurs, standa. 4. Þeir lagder vid X. syna 14da Vetur Tunglalldar Ao. 1780.

## Þridia Dæme.

Hver mun verda Vetur Tunglalldar Ao. 2020. þa Tolu sie eg a Goom Litlafingurs, upp yfer hene standa 16. þeir lagder vid X. giora 26. og nær eg kasta burtu 19. verda epter 7. sem merkia Ar Tunglalldar 2020.

Nu er eñ framar athugande, ad þegar kemur ad þeim Arum, sem falla a millum Tugaña (Tug kalla eg her 20. þo þad Ord merke añars ecke utan 10.) so sem 1721. 1722. 1723. og öñur þvilik, þa tel eg lidena fra 20. 40. 60. 80. ꝛc. hvern epter añañ, og nær eg kem a þañ Liden, a hveríum Artaled endast, þa giæte eg ad þeirre litlu Tolu, sem stendur uppyfer, og legg X. vid hana, og þad er Tunglalldar Veturen a þvi Are, þetta er audskiled af Dæmunum, sem epter koma.

I, Ex-

## 1. Exemplum.

Hver mun hafa vered Vetur i Tunglølld 1724? Eg tel fra 1720. fioora Lide, og lende a Vødvanum uppundan Viisefingre, þar standa 5. 5. og X. giøra 15da Vetur Tunglalld-ar 1724.

## 2. Exemplum.

Jeg vil vita, hver ad sie Vetur Tunglalldar nu i Ar 1737. Tel þvi fra 1720. eins og aadur 17. og lende a effsta Lid Litlafingurs; Þar standa 18. Þeir og X. giøra 28. og nær eg hefe kastad i burtu 19. verda epter 9. sem er Vetur Tunglalld-ar nu i Aar.

## 3. Exemplum.

Hver mun verda Vetur Tunglalld-ar Ao. 1786? Fra 1780. þeim næsta Tug fyrer framan Aartaled, tel eg 6. og lende a Vødvanum uppund-

an Laungafingre; Þar standa 10. þeir lagder vid X. i Loofanum, giöra 20. Kasta þvi i burtu 19. verdur epter 1. sem merkir fyrsta Vetur Tunglalldar, Ao. 1786.

4. Exemplum.

Einhver spyr epter, hver verda mune Vetur Tunglalldar Ao. 1951. Sa næste Tugur fyrer framan 1951. ad Hendiñe er 1940. sem stendur ad Midlid Grædefingurs.

Þadañ tel eg 11. Og med þvi Hondin hrockur ecke til, byria eg aptur i Upphafe heñar, og lende med 11. ad Root Visefingurs: Þar standa 4. Þeir lagder vid X. giora 14. og syna þad, ad Ao. 1951. verdur 14de Vetur Tunglalldar.

Kalla eg nu ænægianlega syndt, med Reglum og Epterdæmum, hvernin Meñ kuñe, af þessare uppdregnu

Hond

Hønd ad vita, hver ad sie Vetur Tunglalldar, a sierhveriu Aare, allt til 2099.

Þegar þu, kiære Vin, ert nu bwẽ ad giøra þier þeñan Lærdom so kuñugañ, ad þu getur funded, vidstødulaust, Vetur Tunglalldar, um sagdan Tijma; fyrer Leidarviiser þeirrar uppdregnu Handar, þa hiyt ur þu smaasaman, ad venia þig af heñar Briooſtum, og fiña Tunglalldar Aren utanbookar, af þiñe eigen Hende, nær þu retter hana fram, og þijnu eigen Briooste, og nema þetta komest i Verk, med sagdre Adferd, kolla eg Fingra-Rijmed hafe aungva Yferburde fram yfer almeñeleg Booka-Riim; þvi þad er litils verdt i Ydkun þessarar Konstar, ad verda alltid ad haanga af Bookeñe, eda þurfa ad griipa til Utvortis Medala, i bland hverra teliast

maa Peñeñ og Kriiteñ, til ad wtreikna Tima Kyrkiu-Aarsens; So ad þeir, sem ecke eru ferdugre en so, þa maa þad rettelega um þa segiast, ad blindur sie booklaus Madur.

Nu so þu verder ecke, mitt Barn, i þeirra Tolu, þa skalltu venia þig vid smaam saman, ad finna Tunglaldar Aaren i Huga þinum, einasta med þad slag, ad þu horfer aa þiina framretta vinstre Hond, og lææter Fingurnar og Fingra-Lidena, med Rotunum og Bodvunum, miña þig aa allt þetta, sem hingad til hefur sagt vered.

Og so ad Næmed kuñe ad falla þeß lettara, þa hef eg odruvis nidur radad Tolunum aa Fingra-Lidena, eñ Gaspar Schottus fordum giort hefur, i sijnu Organo Mathematico: Hañ brwkar Þumalfingureñ, aasamt med hinum fioorum, til ad fiña

Tungl-

Tunglalldar Aareñ, og verdur þvi Nidurradan Tolumar, med soddan Moote, laangtum torvelldare ad muna, þeß vegna, ad Þumalfingureñ kañ ecke ad lena nema þriw Tolu-Sæte, hiner fiogur, og 5. med Vodvunum; Eñ eg hefe so nidur-sett, ad hver Fingur skule hafa i sier med Rootunum og Ulflids-Vodvunum 5. Tolu-Sæte, bætast so vid, aa hverium Lid epter añan 20. Aar, so hver Fingur getur þa siint Gillinitaled i 100. Aar. 20, sem eru yfer Hundrad og Þusund, standa alltid i þessum Handar Uppdrætte, aa fremsta Lid hvers Fingurs, 40. aa Midlid, 60. aa efsta Lid, 80. aa Rootunum, eñ Hundruden aa Vodvunum.

Þetta er audvelldt ad muna, þegar Madur horfer aa Hendena framretta, og Fingra Lidena: Eñ slaae honum feil, þarf hañ ecke añad ad

giora, eñ telia af Soom Viiſefingurs, og uppepter Aldunum at hverium Fingre 1, 2, 3. ꝛc. Item 20, 40. 60. ꝛc.

Til Dæmis.

Jeg vil vita hver Vetur Tunglalldar verda mune Ao. 1860. 1800. ſtanda at Bodva uppundan Viiſefingre (þvi oll Hundruden eru her upp leingſt; þar fyrer reñe eg Auga til Laungafingurs, þar eru 20. fram leingſt, 40. at Midlid, 60. at effſta Lid og þar uppyfer eru 8. þeir med X. giora 18da Ar Tunglalldar Ao. 1860.

Muner þu ecke miñe Toluna, ſem ſtendur yfer þeirre ſem er ſtærre, þa tel fra Upphafe Viiſefingurs, og verda þa 8. at effſta Lid Laungafingurs. So vantar þa ecke neitt añad eñ Ydkunena, til þeß, ad þu geter ſtrax uppa Timañ vitad, hver ad
ſie

sie Vetur Tunglalldar a hveriu Aare.

Fleire Atferder kuña ad brwkast eñ þesse, til ad fiña Gillinital arlega; Eñ eg helld þad ecke neitt betra, ad syna þær her, þvi þar med yrde Skrifed bæde oflaangt, og lika kiñe soddan ad giøra Travala þeim sem læra villde, ef hañ tæke sier fyrer ad briota Heilan i margslags Reglum, yrde so kañske ecke ferdugur i neiñe, þegar a þyrfte ad hallda.

Þeß verd eg þo ad geta, ef einhver vill gaanga leingra fram epter Olldunum, til ad fiña Gillinital, eñ Honden tilviisar, þa kañ honum þad vel ad luckast, epter heñar Anleidingu. Þvi vilie hañ tekia Aareñ a mille Tugaña, þa merker hver fyrste Lidur, sem epter kemur, hvert fyrsta Aar fra næst fyrerfarande Lid; hver añar, añad Aar, hver þridie, þridia 2c. D 5 Eñ

Eñ þa taled er Tuqum saman, þa merker fyrste Lidurenn 20. añar 40. þridie 60. fioorde 80. fimte 100. Og hver tiunde Lidur, ef taled er yferum þvera Hondena, merker Þusund.

Til Dæmis.

Jeg vil vita hvert Aar Tunglalldar verda mune Ao. 2100. 2000. standa a Vodva Baugfingurs, þadan tel eg 5. Tolu-Sæte, og lende a Goom Viisefingurs, og med þvi þar er 1. þa bæte eg honum vid X. og sege, ad Ao. 2100. verde 11te Vetur Tunglalldar. Þadañ tel eg 5. Lide, og lende a Goom Langafingurs, þar standa 6. þeir lagder vid X. syna 16da Vetur Tunglalldar Ao. 2200. sama Adferd er um hin oñur.

Vilie Madur fiña Gillinitaled Ao. 3000. þa skal hañ telia 10. Toluſæte fra 2000. Ecke ofañ epter Lidunum, helldur yferum þvera Hondena, og

og taka til at fremsta Lid Visifingurs, þvi 2000. er i sijdasta Handareñar Tolu-Sæte, yferum þvert, so lender hañ at þridia Tolu sæte Langafingurs, þar standa 8. þeir lagder vid X. giora 18. Gillinitaled Ao. 3000. Ef Verolldeñ stæde so leinge.

Nu so ad þetta, sem her hefur sidast vered uñtalad, kuñe ad verda þeß skilianlegra fyrer þeim sem les, og hañ gete proofad sialfs siins Atburde i þvi, ad fiña Gillinitaled, at þeim Timum sem koma kuña epter nockur Hundrud Aar, þa set eg her eina adra Hond, vid hveria hañ mæ bera samañ siina Ydne Hugarens, i sogdu Verke, og leidretta so siin Feil, ef honum skiatlar

1. 2100
6. 2200
11. 2300
16. 2400
2. 2120
7. 2220
12. 2320
17. 2420
3. 2140
8. 2240
13. 2340
18. 2440
4. 2160.
9. 2260.
14 2360.
19 2460.
X
5. 2180.
10. 2280.
15. 2380.

## Articule. 2.

### Um Tungls-Termin, edur Tølu-Ord Gillinitalsens.

Hingadtil hefur vered kendt, hvernin þeir skilldu fiña Vetur Tungl-alldar, sem vilia hafa Fingra-Rijmed um Hønd. Nu filger epter, ad leida fyrer Siooner Medaled, fyrer hvert ad nijtt Tungl kañ ad fiñast, i hverium Maanude.

Þar til hafa þeir fordum Daga brwkad 19. Latinsk Tolu-Ord, er merkt hafa 19. Aara Gillinitølur, so hlioodande :

3 11 19 8 16
Ter-nus, Ud-en, Nod, Oct-o, Sed,
5 13 2 10
Qvin-qve, Tred, Amb-o, Dec-em,
18 7 15 4
Doc, Sep-tem, Qvind, Qvat-er,
12 1 6 17 6
Dud, Jot-a, Nov-em, Sept, V-i,
14
Qvard,

Med þessum 19. Toluordum, hafa þeir viliad syna Sæte Gillinitalsens, i Book-Riimenu, og sidan, epter þad þeir fundu uppaa Dactylismum, gefa til kiña, hvar þad ætte ad standa aa Fingra Lidunum.

Eñ med þvi vier erum nu ad semia eitt Islendskt Fingra-Riim, i staden fyrer þad Latinska, þa vilium vier brwka Islendsk Toluord, so sem Gillinital, til ad kiña Tungls Utsprungu aa Fingrunum, med þvi þad er hægra fyrer Folk her i Lande, ad nema þad Islendska. Tolu-orden hlioda þañig:

14 Fiort, 3 Þrid-je, 11 Ell-eft, 19 Niit, 8 Att-a,
16 Sext, 5 Fim-te, 13 Þrett, 2 Añ-ar, 10 Tii-u,
18 Aat, 7 Siø-und, 15 Fimt, 4 Fiord-e, 12 Tolf,
1 Fyr-ste, 9 Nii-u, 17 Seyt, 6 Siøtt-e.

Siin-

Siịner her Talan yfer Atkvædunum, hvad sierhvert hefur ad merkia: Og hlijtur Madur ad kuña þesse Toluord reipreñande, uppa sijnar tiju Fingur, so hañ þurfe ecke neitt ad huxa epter Ordunum, þegar hañ er ad fæ ra sier þau i Nyt. Hañ skal og vita, ad i þessare Tolu-Rod, svarar eitt Atqvæde hverium Deige.

Articule 3.

Um Nidur-Radan Gillinitalsens a Fingrunum.

Nu heyrer til ad syna, hvernen þetta Tungls-Termin, edur Gillinital, skal a Fingra Lidunum standa: Meñ þyrftu ecke ad brwka sagda Atferd, ef þeir minde alltid, a hverium Lidum Fingraña Gillitolurnar hefdu sitt Sæte: Eru þvi Tolu-Orden hugfest og brwkud, einasta til þeß, ad styrkia Miñed; Og eru soleidis nidursett, sem her-
grein-

greiner, ſitt Atkvæde at hverium Lid og Hnwa.

Fiort, effſta Lid Midfingurs iñ-añhandar, Þrid- at Midlid, je at fremſta Lid, Ell- at Toppinum, eft at fremſta Hnwa utanhandar Niit-at Midhnwa, Att- at effſta Hnwa, -a at effſta Lid Baug-Fingurs, Sext at Midlid, Fim- at fremſta Lid, -te at Toppinum, Þrett at fremſta Hnwa, Añ- at Midhnwa, -ar at effſta Hnwa. Tij- at effſta Lid Litlafingurs, -u at Midlid, Aat at fremſta Lid, Siø- at Toppinum, -und at fremſta Hnwa. Fimt at Midhnwa. Fioord- at effſta Hnwa, -e at fremra Lid Þumalfingurs Tolf at efra Lid. Fyrſt- at effſta Lid Viiſe-fingurs, -e at Midlid, Nii- at fremſta L. -u at Toppinum, Sext at fremſta Hnwa, Siøtt- at Midhnwa, -e at effſta Hnwa. Þetta allt kañ nu lioos-legar ad ſiaaſt af þeirre uppdregnu Hønd ſem her næſt filger. Art,

## Art. 4.

### Adferdeñ ad fiña nytt Tungl i hveriuin Mœnude, epter œdur framsettum Gillinitals-ordum.

Ameðan þad latinska Fingra-Riim var almennelega um Hend haft her i Lande, brwkuðust styrd og næsta o-þijðleg Vers, ecke einasta til ad fiña Messudaga, helldur og eirneñ Tungl-komur i sierhverium Mœnude: Upphaf þeß fyrsta i Januario var þetta: Cisio, Janus, Epi &c. J Februario: Bri, pur, Blasus &c. og so i hverium Mœnude þar epter i vidlikan Mœta.

J þessum Versum voru viß Agrip edur Atqvæde, sett i hverium Mœnude, so hlioodande:

| Decemb. | Januarii | Februarii | Martii | Aprilis | Maji | Junii | Julii |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Syl, | le, | in, | ni, | qve, | num, | jo, | jau, |

Bart,

Aug. Sept. Oct. Nov. Dec.
Bart, Mau, Dinqvoqve, li, de.

Þesse Atqvæde voru merkt med stærre Stofum, og ættu ad viisa til þeß i hverium Mænude, ad þar skillde byria ad telia til Tunglskveikingar i þeim Mænude, sem næst epter kom; Oll þesse Vers hlaut sa ad kuña reipreñande fyrer utan, sem Fingra-Riimed villde brwka.

Nu mætte þad reiknast Ofotlun fyrer Leikmeñ og Bændur, ad læra fyrer utan soddan Barbariskar Þulur; Þar fyrer hef eg sett i Stadeñ fyrer þau latinsku Vers, 12. Viisur Islendskar, sem eru skrifadar her ad framañ i Riimstocknum; Þar sierhver Viisa filger siinum Mænude.

Viisurnar hafa i sier, hver ein, so morg Atqvæde, sem Dagarner eru i hverium Mænude, og byriast

at somu Bookstofum og þeir, og i þvi eru þær og so hagkvæmare en Romverſku Versen.

Þær geta um alla þa Messudaga, til hverra Tijmarner eru hellst talder her i Lande. J þeim eru 12. Atqvæde edur Aagrip sett i hverium Maanude, med Stærre Stefum, sem kuña ad brwkast, eins og þau Latinsku fyrrum, ad fiña Tungl-Komur.

Til Dæmis.

Vilie eg fiña Tungls Utsprungu i Januario, fyrsta Vetur Alldar, þa set eg fyrst at effsta og Midlid Viisefingurs þesse tvø sidustu Atqvæde i Decembri; OG MANN. Sidan tek eg Upphafed at Januarii Viisu, og segie at fremsta Lid Viisefingurs Aar, nijtt at Toppinum, hoof at fremsta Hnwa, Ja- at Midhnwa, -nus at effsta Hnwa. Sid-

Sidan vik eg aptur iñanꜳ Midfingur og les ſo Viiſuna til Enda, Lid epter Lid, Fingur epter Fingur, þar til eg kemſt med Orded GUD, þaungad ſem Gillinitaled ſtendur, ꜳ effſta Lid Viiſefingurs, og er þad 29de Lidur, ſiñ Lidur fyrer hvern Dag Mꜳnadarens, þvi eg hoof Viiſuna ꜳ fremſta Lid Viiſefingurs; og med ſama ſlag ma brwka allar 12. Viiſur Mꜳnadaña; þvi Atqvæded, ꜳ hveriu byria ſkal ad telia til Tunglſens; i þeim Mꜳnude, ſem epterkemur, er adgreint frꜳ hinum ødrum med ſtooru letre: J Januario er Orded GUD, J Februario HLAUT, og ſo ſitt i hverium, ſem epterkoma.

Nu hefur mier þott þeſſe Atferd laungſom, og nockud leidenleg; þar fyrer er tilætlad, ad Tunglkomurnar

at ſkule ſiñaſt, med þad ſlag, ſem nu miun eg greina.

Þegar eg ſer ad leita ad Nyu Tungle i ſierhverium Manude, epter Tøluordum Gillinitalſens, ſo niðurſettum a Lidamootunum, ſem Fyrerſkriften og uppdreigeñ Hond Art.3.p.88.89. tilviiſar; Þa ſleppe eg tveimur Lidum a Viiſeſingre, fyrer Januarium, þremur, a ſama Fingre fyrer Februarium; Tveimur fyrer Martium; Þremur fyrer Aprilem; Fiorum fyrer Majum; Fiñ fyrer Junium; Sex fyrer Julium; Sio fyrer Auguſtum; Atta fyrer Septembrem; Niju fyrer Octobrem; Tiju fyrer Novembrem og Elleſu fyrer Decembrem, (þad eru alls ſio Lider Viiſeſingurs og fiorer Lider Midſingurs med Toppinum, þvi hañ reiknaſt alltid fyrer eiñ Lid.)

Nu ſo ad þeſſe Fyrerſkrift, um

Undanfellingu Lidaña, at Viisefingre og Laangafingre, kuñe helldur ad festast i Miñe, þar er tilætlad, ad þriaar epterfilgiande Viisur skule læraft vel fyrer utan.

Jan og Mars tvo felldu fra;
 J Feb og April þremur gleim;
Majus fioora missa maa,
 Mun þa Talid komaft Heim.
Fiiñ Junius siniar señ;
 Sex Julius lausa gaf;
Sio Augustus saknar eñ,
 So telst Viisefingur af.
Atta Septemb. aa burt fær;
 Octob. niju, minst þeß hier;
Tiju Novemb. Lide liær;
 Liet Ellefu December.

Ad þessum Grundvelle logdum, vil eg syna med Epterdæmum, hvernen nytt Tungl skal fiñast i hverium Maanude.

1. Epterdæme.

Jeg vil vita nær Tungl springur ut i Januario, fyrsta Vetur Alldar. Nidurradan Gillinitalsens at Lidunum, er eg bwen̄ aadur ad sijna, Art. 3. p. 87-89. bæde med Fyrerskrifteñe og Handareñar uppmaalan. Þar fyrer nær eg fer ad higgia ad, at hverium Lid Gillinitaled 1. stande, þa fiñ eg, ad þad situr at efsta Lid Viisefingurs iñañ Handar; Þar fyrer sleppe eg tveimur þeim efstu Lidum þeß Fingurs fyrer Januarium, og tek til ad telia 1. at fremsta Lid, 2. at Toppinum, 3. at fremsta Hnwa, 4. at Mid Hn. 5. at efsta Hn. 6. at efsta Lid Midfingurs iñan handar, 7. at Midlid, 8. at fremsta Lid. 9. at Toppinum. 10. at fremsta Hnw. 11. at mid Hnwa. 12. at efst. Hn. 13. at efsta Lid Baugfingurs. 14. at Midlid. 15. at fremsta L. 16. at Topp-

Toppinum. 17. a fremsta Hnwa. 18. a m. H. 19. a efst. H. 20. a efsta Lid litla Fingurs. 21. a m. L. 22. a frem. L. 23. a Toppinum. 24. a fremsta Hn. 25. a m. H. 26. a efsta Hnwa Litlafingurs. Padañ vik eg yfer a fremra Lid Þumalfingurs med 27. 28. a hañs efra Lid, og sijdan 29. a efsta Lid Viisefingurs Jñañhandar, hvar eg hafde adur funded Gillinitaled 1. standa. Þar fyrer kemur Tungl 29. Jan. þegar Gillinitaled er 1. edur fyrsta Vetur Alldar.

2. Epterdæme.

Jeg vil vita, nær Tungl kemur i Febr. annañ Vetur Tungl-alldar. Ef eg man ecke a hverium Fingurs Lid Gillinitaled 2. stendur, þa les eg Tungls Termined, edur Gillinitals Ordin uppa Fingurnar, og nær eg tek til þeß a efsta Lid Midfingurs,



so

so sem fyrre, formerke eg, ad þad stendur a Midhnwa Baugfingurs utan Handar, hvad eg læt mier ecke wr Minne falla; Sleppe so þremur Lidum þeim fyrstu a Wiisefingre, med þvi Februarius a i Hlut, og tek til ad telia 1. a Toppinum 2. 3. 4. a Hnwunum. Sidan tel eg alla Lide a Midfingre, og so framvegis, þar til eg kem a Midhnwa Baugfingurs, þad eru alls 17. Lider. Þar fyrer kemur Tungled 17. Febr. þegar Gill. Taled er 2.

3. Dæme.

Mier er Hugur a ad ransaka nær Tungl hefur komed i Martio A. 1712. 3. Vetur Tungl-alldar. Fer þvi ad higgia ad, epter þvi sem Tungls Termined viisar til, a hverium Fingurs Lid Gillinitaled 3. hafe sitt Sæte; Finn eg strax, þad er Midlidur Laanga-Fingurs. Sleppe þvi tveimur Lidum

a

at Viisefingre, handa Martio, eru epter 5. 6. og 7. at Midlid Midfingurs; Þar fyrer hefur Tungled sprwnged wt, epter Midhlaupe Himintunglanna 7. Martii A. 1712. Eins lijka endrar nær, þegar Gillinitaled er 3.

4. Dæme.

Jeg vil hyggia ad, at hverium Dege Aprilis Tungl kveikest 4da Vetur Alldar. Fer þvi ad lesa Tungls Termined, edur Gillinitals Adkvædin, at efsta Lid Midfingurs, sem vant er; og sege, Siort at efsta Lid, Þrid- at Midl. -je at fremsta Lid, Ell- at Toppinum, -eft at fremsta Hnwa, Nijt at m. Hn. Att- at efst. H. -a at efsta Lid Baugfingurs, Sext at Midlid, Fim- at fr. Lid, -te at Toppinum, Þrett- at fremsta Hnwa, Asi- at m. Hn. -ar at efst. H. Tij- at efsta Lid Litlafing. -und at Midlid, Aat

a fr. L. Sig: a Toppinum, und a fremst. Hnwa, Fimt a m. H. Fioord: a effta Hn. sem merker Gill. Taled 4. hvert eg villde fiña, þad hefur þar Sæte æ og jafnan; Sleppe eg so þremur Lidum a Viisefingre, med þvi eg aſette ad fiña Tungls Utsprungu Dageñ i Aprili, og tek til ad telia a Topp Viisefingursens 1. 2. 3. 4. a Hnwunum 5. 6. 7. 8. 9. 10. 11. a Midfingurs Lidamootum 12. 13. 14. 15. 16. 17. 18. a Baugfingre utañ og iñañ 19. 20. 21. 22. 23. 24. 25. a ollum Litla-fingrenum, og med þvi eg lende nu med 25. a hañs effta Hnwa a Gill. Talinu 4. þa segie eg, ad Tungl kveikest 25. Aprilis, þegar Gill. Taled er 4.

5. Dæme.

Eñ er mier til Siñis ad vita, uppa hvern Dag Maji Manadar Tungls Kveiking fellur fimta Vetur Alldar.

Jeg

Jeg þarf ecke ad leida optar Lesarannum fyrer Siooner, hvernin Madur skal lesa Tungls Termined aa Fingrunum, so hañ vite, hvar Gillinitaled stendur, þvi þad maa noogsamlega siaast af Tungl-Hendeñe, sem her fyrer framan er uppdreigin, og lijka skiliast af mijnum Fyrer-sognum. Gef mig þvi einasta til ad telia Lidena aa Fingrunum, allt ad Gillinitalinu, nær eg hefe aadur sleppt 4. aa Viise-Fingre fyrer Majum, og sege 1. aa fremsta Hnwa Viise-fingurs, og so framvegis, þar til eg kemst med 13. þaangad sem Gillinitaled 5. hefur sitt Sæte, aa fremsta Lid Baug-fingurs iñañ handar. Þar segie eg, ad Tungl kveikest 13. Maji, þegar Gill. taled er 5.

6. Dæme.

Nær mun Tungl hafa komed i Junio A. 1734. siotta Vetur Tungl-

 Alldar?

Alldar? Epter Nidurradan Gillinitalsens a Fingra-lidunum siñ eg, ad Gillinitaled 6. situr a Midhnwa Viise-fingurs utanhandar, þar fyrer þegar eg sleppe 5. Lidum a sama Fingre fyrer Junium, þa verdur Tungls Utsprungañ þañ 1. Junii. Þvi alltijd, þegar bwed er ad sleppa Lidunum so og so morgum, sem Forskrifteñ segier, þa fer eg strax ad telia þeß Maanadar Daga, a hverium jeg vil finna Nyed.

7. Dæme.

Eñ framar ad syna þad, ad mijnar Reglur, til ad fiña nytt Tungl i einhverium Maanude, sieu a goodum Grundvelle bygdar, þa vil eg higgia ad, a hverium Degie Julii Maanadar þær segia Tungl kveikest siøunda Vetur Tungl-Alldar. Gillinitaled 7. situr a Topp Litla-Fingurs; þar fyrer, þegar eg hefe sleppt 6. Lidum

a

a Vijse-fingre, og fer ad telia 1. a hans effta Hnwa, þa kemst eg med 19. þangad sem Gillinitaled situr, segie þvi, ad Tungl kveikest 19. Julii, siøunda Vetur Alldar.

8. Dæme.

Fer eg enn leingra framm, og vil vita hvar Tungl kveikest i Augusto 8da Vetur alldar. Tungls-Termined syner mier, ad Gillinitaled sitie a effsta Hnwa Mid-fingurs: Þar fyrer, þegar eg hef sleppt øllum Lidum Vijse-fingurs 7. og fer ad telia a effsta Lid Mid-fingurs Augusti Daga, þa kemst eg med 7. a hans effsta Hnwa: Segie þess vegna, ad Tungl kveikest 7da Augusti a 8da Are Tungl-Alldar.

9. Dæme.

Nu a þessu Are 1737. er Gillinitaled 9. vil eg vita hvar Tungled mune koma i næstkomande Septembri.

Jeg sleppe øllum Viise-fingurs Lid-um, og eftta Lid Mid-fingurs; og fer ad telia a hans Midlid Daga Septembris þannig: 1.2.3.4.5.6. allt a eftta Hnwa þess sama Fingurs 7.8.9. 10.11.12.13. allt til efftaHnwaBaug-Fingurs, 7. Lider Litla-fingurs og 13. giøra 20. 21. a frenira Lid Þumal-fingurs. 22. a efra Lid. 23. a eftta Lid Viise-fingurs iñanhandar. 24. a M. L. 25. a fremsta Lid, sem er Sæte Gillinitalsens 9. Þar fyrer segie eg, ad Tungl mune kveikiast 25. næstkomande Septembris.

10. Dæme.

Nær mun Tungl kviikna i Octobri, ad Are komanda 10. Vetur Tungl Alldar. Jeg formerke af Stefiunum, ad Gillinitaled 10. sitia a eftta Lid Litla-fingurs: Þar fyrer, nær eg sleppe Viise-fingre, og tveimur Lid-um a Midfingre, alls 9. þa teliast

þadan

þadan 13. Lider, ad medreiknuduim
þeim, sem Gillinitaled situr aa. Segie
þvi, ad Tungl kveikest 13. Octobr.
ad Are komanda.

11. Dæme.

Ef einhver vill spyria nær Tungl
mune kvikna i Novembri 11ta Vet-
ur Tungl-Alldar, þaa sege eg þad
verde þañ fyrsta; med þvi Gillinital-
ed 11. situr aa Topp Midfingurs, so
sem Termined wtviisar. Nær eg
sleppe 10. Lidum ad framan, þaa byr-
ia eg ad telia Novembris Daga aa
Topppinum, verdur þeß vegna nytt
Tungl 1. Novembr. Ellefta Vetur
i Olld.

12. Dæme.

Ad sijdustu gyrner mig ad vita,
nær Tungl mune springa wt i De-
cembri, 12ta Vetur Alldar. Jeg tek
til, sem endrarnær, ad lesa Gillinitals
Ordeñ, og þaa eg hefe lesed þau, F ng-

ur epter Fingur, siñ eg um̃ siider, ad 12. standa a efra Lid Þumal-fingurs. Viit þvi aptur til ad telia Daga Decembris Manadar, og epter Fyrerskriftteñe, sleppe eg fyrer hañ 11. Lidum. Tek þvi til ad telia 1. Decembr. a fremsta Hnwa Mid-fingurs utañhandar, og so Lid af Lid, fæ eg 17. a efsta Hnwa Litla-fingurs. Viit þvi þadan yfer a Þum-al-fingur, og segie 18. a hañs fremra Lid, og 19. a þeim efra, hvar ad adur vard fyrer mier Gillinitaled 12. Slutta so þar af, ad Tungl kveikest 19. Decembris, 12ta Vetur Alldar.

NB.

Um̃ Auka-tungleñ fellur þesse Athuge.

Þridia og Siotta Vetur Alldar, kvikna Auka-tungl þañ 1. Octobris og Julii. Verdur þvi ad sleppa þaa einum færra eñ vant er, ef þau skulu fiñast;

finnast; Enn 11ta og 19da Vetur, koma þau seinast i Novembri og Decembri; Hin önnur þriu, eru Reglunne undergefenn.

# Cap. III.

## Um Hlaup-Aar og Alment-Aar.

Aller Computistæ plaga ad gefa Reglu, med hverre Menn kunne ad vita, hvört eitt Aar sie Hlaupaar edur alment Aar.

Enn þetta Fingra-Riim þarf henar aungrar vid; þvi Stefinn, sem eg hefe tilsett, med Samhendunum, eru so innrettud, ad þau syna þad lioosleg a, hvert Aared, sem vered er um ad spiszla, sie Hlaup-Aar eda alment Aar, og þad wt alla Soolarolld hina Minne, eina epter adra: Enn vilie nockur þar fyrer utan kunna ad greina Hlaupaar fra almennum

Aarum, þa þarf hañ ecke añad ad giøra, eñ kasta i burt af Aartalinu tveimur þeim fyrstu Tølum, sidan 20. og seinast 4. so opt sem hañ getur.

Verde þa ecke neitt epter, þa er þad Hlaupaar sem hañ hefur fyrer Sioonum; Eñ verde epter 1. 2. eda 3. þa er þad añadhvert Fyrsta, añad eda þridia alment Aar, epter Hlaupaar.

Til Dæmis.

Jeg vil vita, hvert Ared 1785. er, Hlaupaar, eda alment Aar. Þar fyrer kasta eg fyrst i burt 17. (tveimur þeim fyrstu Tølum) sidan fioorumsiñum 20. (edur 80.) og seinast 4. verdur epter 1. sem merker fyrsta alment Aar epter Hlaupaar.

Añad Dæme.

Mig gyrner ad vita, hvert Ared 1824 mune verda Hlaupaar eda alment Aar. Kasta þvi fyrst i burtu

18.

18. Sidan 20. og sijdast 4. verdur ecke neitt epter; Og þvi er greint Aar, Hlaupaar. Sama er Adferdin allstadar añarstadar.

Filger su Undañtekt og Athuge her med, so miked sem aahrærer Hundrudustu Aaren, ad þriw filgiast alltid ad almeñ, eñ þad fioorda hvert er Hlaupaar: Og er þad hægt ad vita, hver Hundrudustu Aareñ sieu Almeñ, og hver Hlaupaar. Þvi ef ecke Verdur neitt epter, þegar eg kasta 4. burt af tveimur þeim fyrstu Tølum i Aartalinu, þa er þad Hundradasta Aar Hlaupaar; Eñ ef 1. 2. eda 3. verda epter, þa eru þad Almeñ Aar.

Til Dæmis.

Jeg vil vita hvert Ared 1800. er Hlaupaar, edur Alment Aar. Kasta þvi i2burt fraa tveimur þeim fyrstu Tølum, fioorum siñum 4.

 (þad

(þad eru 16.) optar get eg þad ecke, verda epter tveir, þeß vegna er þad alment Aar.

Aptur vil eg vita, hvert Ared 2000. er Hlaupaar eda Alment Ar: Giore sem fyrre, kasta i burt 4. simsinnum, og verdur ecke neitt epter; Þar fyrer er þad Hlaupar.

# Cap. IV.

## Aunnur Gagnsemd Singra-Rijmsens.

### Um Hræranlegar Arsens Hatijder.

### Art. I.

Aunnur hin hellsta Gagnsemd Singra-Rijmsens, er, sem adur er sagt, ad finna hræranlegar Arsens Hatider, Nijuvikna-Fostu, Paaska, Hvijta-Sunnu, og þad fleira, sem þar med filger.

Tvennslags Grundvoll þurfa menn her

her til ad brwka; Sem er fyrst ad vita, hver Vetur sie Tunglalldar. Þar næst, Suñudags Bookstafur a Aare hveriu. Þad fyrra er lioost af þvi sem ædur er kent Cap. II, Art. I. pag. 69. seqq.

Um þad siþdara, vilium vier her nu Undervisun giora.

Þad hefur leinge Venia vered i Christneñe, medañ sa Gamle Stiill var i Bruke, einkum sidan su Nicæniska Raudstefna var hallden, Aarum epter Gudsburd, 325. ad fiña Sunnudags-Bookstaf af Soolarølld hiñe Gømlu, sem til þeirrar Nytsemdar var i Fyrstuñe uppfunden. Hun iñebatt i sier 28. Aar, þviad Hlaupaarsdagarner, sem heñe tilfiellu, giordu Siosiñum Umbreiting a Suñudags-Bookstafnum, so þeir komust ecke i kring, eda i sijna gømlu og rettu Rød apt-

ur,

ur, fyrr eñ ad lidnum 28. Aarum.
Eñ þegar Nye Stiill fyrst byr-iadest Ao. 1582. vard su Atferd mik-enpart løgd fyrer Odal hia þeim Catholisku, ad finna Suñudags-Bookstaf epter Soolarolld hinne Gømlu, sokum þeß, ad þa var su Umbreiting giord a Tiimatalenu, ad i Endingu hverra Hundrad-Aara þrisvarsinnum samfleitt, skillde Hlaupaars Degenum, sleppt verda; En fioorda hver Olld skillde alltid endast med Hlaupaare.
Epter þessare Raadstofun og Under-bwninge, var stiftud Ny Soolar-olld uppa 400. Aar, a mille hver-rar og hiñar gømlu, ad var stoor-mikell Mismunur, so nu er laangt-um torvelldara eñ adur, ad finna Suñudags-Bookstaf, einkum a Fingrunum, þvi þar sem øll hans Umbreiting hafde Enda, epter Gam-

la

la Stiil, ad lidnum hverium 28. Aarum, þar endast hun nu ecke, fyrr eñ 400. Aar eru liden: Eñ ad skilia þær Vanda-Reglur, sem þar til þena, og ad komast i gegnum þa ordugu Vege, sem Rijm-Meistarar hafa i þeim Sokum fyrerlagt, þad er ecke hverium einum Smælingia gefed. Eingvu ad sijdur, maa sa þo ecke þeß aan vera, sem vill brwka Fingra-Rijmed, ad geta funded Suñudags-Bookstafen, aa hveriu Aare, so hañ hafe hañ alltid i fersku Miñe, þegar aa þarf ad hallda, ecke sijdur eñ Tunglalldar Veturen; þvi þetta eru þær tvær Stittur, sem Kyrkiuaars Reikninguren, vidvikiande hræranlegum Haatidum Aarsens, er uppaa bigdur. Skal þvi fyrst þar um skrifa, hvernin ad Solar-Olld, sem Fingra-Rijmenu er þenañleg, samt heñar Ar, hvert fyrer sig, kuña funden ad verda.

Art.

## Art. 2.

Underviisun um̃ Solar-Olld Nya Stiils, þaa Stærre og Minñe.

Meñ hliota endelega ad brwka eina 28. Ara-Olld i Fingra-Reikningenum, til ad finna Suñudags Bookstaf sierhvers Aars, eins og Venia hefur vered i Book-Riimenu alla Daga, æ medan Gamle Stiill var hafdur um̃ Hønd.

Eñ ad wtvelia henne þenañleg Takmork, og koma henne haglega fyrer, so hun verde Erfidenu til liettirs, og hver eiñ, sem vill, kuñe hana sier ad hagnyta, þad wtheimter stora Grandskigne, søkum Hlaup-aars Dagaña, sem þrisvarsiñum eru undañfellder æ sierhverium 400. Aara Tijma, og fyrer Skomu var æminst. Kalla eg þad nægia, ef ad greind Olld verdur so nidursett og skømtud, ad Meñ gete greiduglega Sunnudags-

Book-

Bookstaf af heñe funded; þvi þetta er einasta Gagnsemden, hvar fyrer hun hefur nockuru Tijma stiftud vered.

Nu so ad þetta kuñe ad komast i Verk, þaa verda Meñ fyrst, ad faa Þecking þar um, hverniñ Solar Olld hin stærre kañ ad fiñast, og hver ad sieu heñar Takmørk.

Art. 3.

Regla, ad finna Soolar-Olld hina Stærre.

Skiftu Aartale Christi hveriu sem fyrerfellur med 400. Eda ef þier þiker þad audvelldara, kastadu fiorum so opt burt sem þu gietur fraa tveimur þeim fyrstu Tølum, sem i þvi eru, þad sem epter verdur, eru Aar tiedrar Alldar, eñ verde ecke neitt epter, þaa er þad heñar sijdasta Aar.

1. Exemplum.

Eg vil vita, hvad mørg Aar mune verda

verda lideñ af Solar-Olld hinne Stærre A. 1860. kasta þvi fiorumsiñum 4. i burt fraa 1860. verda epter 260. sem eru heñar Aar. Adferd þesse kañ framar ad verda lioos, af þvi sem epterkemur.

2. Exemplum.

Hvad læangt mun vera lided aa 400. Ara Olldena A. 1600? Nær eg kasta burt fraa þessu Dato fioorum siñum fioorum, eda 16. þaa verdur ecke neitt epter, nema tvær Ciphrur, sem ecke gillda neitt einsamlar; þar fyrer hefur Aared 1600. vered seinasta Ar Alldariñar. Af þessu er audskiled, hver ad sieu Takmork þeirrar 400. Aara Alldar, sem nu stendur yfer; Hun nær fraa 1600. allt til 2000. inclusive, ef Gud vill so vera laata.

Framar er merkiande, ad þar þesse hin mikla Olld innebindur i sier 4ra Hundradz Flocka; þaa byriast hiñ

fyrste

fyrſte A. 1601. Añar 1701. Þridie 1801. Fiorde 1901. Sidañ hiñ fyrſte aptur A. 2001. Añar 2101. Og ſo med ſama ſlag framvegis, hver epter añañ, ad lidnu ſierhveriu Sæculo. Epter þvi ſem ſiaſt maa af þeirre uppdregnu Hønd, ſem kemur ſkoñu her epter

## Art. 4.

### Regla ad finna Soolar-Olld hina Minne af þeirre Stærre.

Þegar þu villt nu fiña Aar Soolar alldar hiñar Miñe, þa ſkalltu fyrſt kaſta i burtu tveimur þeim fyrſtu Toluſtøfum fra Aartale Chriſti, hyggia ſidan ad, hver Hundrads Flockur hiñar Stærre Alldar þad mune vera, ſem þa yferſtendur, hvert ſa Fyrſte, Añar, Þridie edur Fioorde; Sie þad ſa fyrſte, þa ſkallt þu leggia vid ſierhvert Aar hans, og þad ſem ſiendur yfer Høf-

de

de hønum ; (þad er, nærſt undan hønum geingur). 1. Vid Aar þeß Añars, og þad ſem yfer hans Hofde ſtendur 5. Vid Aar þeß Þridia, og þad Aar, ſem nærſt undan hønum geingur, 9. Vid Aar þeß fioorda, og þad ſem yfer hans Hofde ſtendur, 13. Verde þa Summan 28. eda miñe, þa er þad Soolar-ølld-en; En verde hun meire, þa kaſta i burt 28. ſo opt ſem þu getur, eda, hvad hægra er, (einkum þa Aaren eru ord-en mørg) 30. og bæt 2. vid Afgangin fyrer hveria 30. Summan er Soolarollden.

Dæme uppaa þañ fyrſta Hundrads-Flock, og Ared næſt fyrer-farande.

Hver mun vered hafa Vetur Soolaralldar Ao. 1662? Svar: 7de: Þvi þegar eg kaſta burt 16. og legg 1. vid Afgangin, þa verdur hañ 63. kaſta j ſidañ burt tviſvar ſiñum

30. Eñ legg 4. vid 3. siina 2. fyrer hveria 30. þa verda þad 7.

2. Dæme.

Jeg vil vita, hver vered mun hafa Vetur Soolaralldar Ao. 1600. sem geingur nærst undan þeim fyrsta Hundrads-Flock. Kasta þvi burtu 16. og set aptur 1. sem var Vetur Soolaralldar Ao. 1600.

Dæme uppaa yferstandande Seculum, og þad Aar, sem geingur nærst undan þvi.

Ef einhver kañ ad spyria hver vered mun hafa Vetur Soolaralldar Ao. 1700. er stendur nærst fyrer framan Aññan Hundrads-Flock þeirrar Stærre Soolaralldar, þa svarast: 5te: Þvi þegar eg kasta i burt 17. og legg 5. aptur, þa merkia þeir 5ta Vetur alldar Ao. 1700.

2. Dæme.

Hver mun vera Vetur Soolar Alldar

alldar nu i Aar 1737? Svar: 14de. Þvi þegar eg, ad burtkostudum tveimur þeim fyrstu Tolum (17.) legg 5. vid 37. þa verda þad 42. kasta sidan i burtu 30. eñ legg 2. aptur i staden vid Afgaangen 12. hverier ad giora 14. og merkia 14da Vetur Soolar-alldar, aa þessu Aare, sem nu yfer-stendur.

3. Dæme.

Jeg vil vita, hver verda mune Vetur Soolar-Alldar Ao. 1791. Sleppe þeß vegna 17. eñ legg 5. vid Resten, verda 96. Kasta so i burtu þrisvarsiñum 30. eñ bæte 6. geimdum vid 6. verda 12. er syna Vetur Soolar Alldar Ao. 1791.

Dæme, vidvikiande þeim þridia Hundrads Flocke, og þvi Aare, sem stendur framan vid Høfud hans.

Hver mun verda Vetur Alldar Ao.

Ao. 1800? Svar: 9de. Þvi ad burtkostudum 18. legg eg 9. til aptur, sem merkia 9da Aar Solar-Alldar A. 1800.

2. Dæme.

Þu villt vita, hver verda mune Vetur Soolar Alldar A. 1845. kastar þvi i burtu 18. og leggur 9. vid Resten, verda 54. Þar af dragast 30. verda epter 24. Þeir med 2. geimdum, giora 26. Vetur Alldar A. 1845.

Dæme uppaa hann fiorda Hundradz Flock, og þad Aar, sem geingur næst undan.

Ef einhver vill vita, hver verda mune Vetur Solar-alldar A. 1900. þaa maa hann kasta i burt 19. og setia aptur 13. sem merkia Vetur Solar-Alldar Ao. 1900.

2. Dæme.

Hver mun verda Vetur Alldar

Ao. 1919? Svar: 4de. Hvi þegar eg kasta i burtu 19. og bæte 13. vid Resten, þaa verda þad 32. Kasta sijdan i burtu 28. blifa epter 4. Vetur Soolar Alldar A. 1919.

3. Dæme.

Ef nockur gyrnest ad vita Vetur Solar-alldar A. 1999. þaa kaste hañ i burtu 19. tveimur þeim fyrstu Tölum, og legge 13. vid þad, sem epter blisfur, hverier ad giøra 112. Kaste sijdan i burtu þrisvar siñum 30. Eñ geime 6. i Huganum, hveria hañ skal leggia vid Resten 22. verda 28. Seinaste Vetur Solar Alldar A. 1999.

Art. 5.

Liosare Undervijsun um Rød Zundradz Flockanna, og þær Tølur, sem leggiast vid hvern eiñ.

Hingad til hefe eg giørt Undervijsun þar um: hvernin Madur skal fiña Vetur sierhverrar 28. Ara Alldar,

ar, wt alla þar Stærre Olld Nya Stiils. Eñ so ad Nod Hundradz-Flockaña og þeirra Adgreining, asamt Tolurnar, sem leggiast eiga vid hvert Aar, sem þeir iñe hallda, kunne Liooslegar ad siaast, eñ eg hef adur umgeted, þar sest her ein Hond, sem þad syner, so berlega, ad ecke verdur villt fared.



1.
2.
4.
3.
I.
5.
9.
13.
1600
1700
1800
1900
2000
2100
2200
2300
2400
2500
2600
2700
2800
2900
3000
3100

# Utskijring Handareñar.

Tölurnar, sem standa æ nedstu Lidum Fingraña, og þeirra Rotum, merkia Aartal Christi. Þær sem standa æ Midlidunum 1.5.9.13. segia til þeß, hvad morgum Arum þurfe ad bæta vid hvern Hundradz Flock rett nidur undan þeim, so ad Solar Ølldensu miñe, med siñe Skerdingu æ Allda-Rotunum, kunne alltid ad syna Suñudags Bokstafen riktuglega, wt alla 400. Ara Olldena. Sæ fyrste Hundradz Flockur þeirrar alldar, byriast strax epter Artaled, æ Viise-fingrenum, eñ endast med Artale Læanga-fingurs.

Añar byriast strax epter Artal Læanga-fingurs, og endast med Artale Græde-fingurs.

Sæ þridie byriast strax epter Artal Græde-fingurs, og endast med Ar-

Artale Litla-fingurs, og þetta allt i somu Rodene, og yferum þvert.

Saa Fioorde byriast strax epter Artaled a Litlafingrenum, og endast med Artale Viise-fingurs i añare Rodene, og so framvegis. 4. sem standa a fremsta Lid Viise-fingurs, merkia þad, ad Artaled nidurundan þeim, ende alltid 400. Ara Olldena, og heñar fiorda Hundrads-Flock, med Hlaup-aare. Hinar Tolurnar 1. 2. 3. a fremstu Lidum Laanga-fingurs, Græde-fingurs og Litla-fingurs, syna þad, ad Areñ rett nidur undan þeim, enda þañ Fyrsta, Añañ og Þridia Hundradz-Flock Tetracosieteridis, med Almeñu Are.

## Art. 6.

### Ad finna Sunnudags-Bookstaf aarlega af Soolár Olld þeirre Minne.

Jeg maa vel segia um Suñudags-

Book-

Bookstafen, eins og eg hefe ađur sagt um̃ Tungl-Ölldena, ad þad er ecke einum heilvita Manne vorkennande, ad finna han̄ Aar epter Aar, þegar han̄ veit einn sin̄e hver han̄ er; So ad sá, sem Fingra-Rijms Konstena ydkar, kan̄ trautlega ad fara ã mis vid han̄: Vite han̄ hver han̄ er ã yfirstandande Are, þá veit han̄ og ein̄in hver han̄ mune verda ã þvi Are, sem epter kiemur? Þvi alldrei þarf annad ad giøra, ẽn ad taka han̄ sem nærstur er fyrer framan i Stafrofenu.

## Til Dæmis.

Nu i Aar er Sunnudaags-Bokstafuren̄ F, þar fyrer hlijtur han̄ ad vera E ã epterkomande Are;

og D þar nærst, þvi E er nærst fyrer framan F, og D nærst fyrer framan E. Þad siest gior, þegar Stafrofed er lesed aptur aa bak aa þennañ Hætt: G, F, E, D, C, B, A. Og nær Hlaupaars-Dagureñ iñfellur, sem skedur fioorda hvert Aar, þaa verda alltijd tveir af þessu Stafroofe brwkader fyrer Sunnudags-Bokstafe, saa sijdar aa Arenu, sem fyrr stendur i Rodeñe.

Eñ vilier þu, miñ Vin, gætva upp Suñudags-Bookstaf þeß Ars, sem fyrer longu er umlided, eda koma mun aa seiñe Tijmum, þaa vil eg underviisa þier, hvernin þad kañ ad ske i snøggvu bragde, med 28. Ara Olld Solarennar, fyrer eitt vist Medal. Eñ aadur

eñ eg leide þad sama i Lioos, vyrdest mier naudsynlegt, ad setia bæde Solar Oldena og Suñudags Bookstafena heim fyrer Sioner, er þetta les, og þad aa uppdregnum Høndum, so hañ lære fyrst af hvilijkre Afmaalan, ad faa nockurt Skinbragd, aa þvi, hver Sunnudags-Bokstafur heyre til sierhverium Vetre Soolar-Alldar, hvert vera kañ Hlaupaar eda Alment Aar. Høndurnar fylgia aa epter.


4. E.
3. F.
2. G.
1 B.A.
8 G.
7. A.
6. B.
5. D.C.
12. B.
11. C.
10. D.
9. FE.
16. D.
15. E.
14. F.
13 A.G.


28.
C.
24.
A.
27.
D.
20.
F.
23.
B.
19.
G.
26.
E.
22.
C.
18.
A
17.
E.B.
21.
E.D.
25.
G.F.

## Utskijring Handana.

Her maa nu sia 28. Ara Olld Nya Stiils, teicknada aa 7. Fingrum og Rootum vinstre og hægre Handar, item Sunudags Bokstafena under Tolunum, sem heyra til sierhverium Vetre: Merker 1. aa Root Viise-fingurs, fyrsta Ar Soolar Alldar, og tveir Bookstafer þar under B A, Hlaup-aar, so sem og allstadar aanarstadar aa Fingra-Rotunum. 2. aa effsta Lid Viise-fingurs, med Bookstafnum G under, merkia aanad Aar Alldar. 3. aa Midlid sama Fingurs, med F under, merkia þridia Aar Alldar. 4. aa fremsta Lid Viise-fingurs, med siinum Bookstaf E under, merker hid Fioorda Aar. 5. aa Root Laanga-fingurs, med 2. Bokstøfum, merkia Fimta Aar somu Alldar, og so hvad af hveriu upp epter

aa

a hverium Fingre, bæde vinstre og hægre Handar, so sem Tølurnar syna, allt þar til 28. koma til ad standa a fremsta Lid Lannga-Fingurs hægre Handar: Tveir Bookstafer standa alltijd a Root hvers Fingurs, sem votta Hlaup-areñ, eñ 1. a hverium hiña, bodande Almeñ Aar.

Nu þott þu kuñer vel ad hugfesta, hverniñ Soolar Alldar Areñ standa a Fingrum beggia Handaña, med þvi, ad Nidurradan þeirra og Lidaña styrker miog so Miñed i þeirre Grein; Samt mun þad veita bærgt, ad muna hver Suñudags Bookstafur fylge sierhverre Tølu; Einkum þeß vegna, ad Rød þeirra i Solar Olldeñe geingur ecke rett a fram, eins og i Upphafs Støfunum, helldur aptur a bak. Þar fyrer hafa nockrer funded uppa þad, til ad finna Suñudags Bokstafiñ, ad taka til a seinasta

Aare

Aare Alldareñar, og lesa so Bokstafena upp epter, þvi þaa verdur Rødeñ rett, eins og i Stafroofenu: Og þegar þu med soddañ Moote kemur ad þvi Are, hvers Sunnudags Bokstaf þu villt fiña, þaa verdur hañ strax þar fyrer þier.

Til Dæmis.

Jeg vil vita, hver Suñudags Bokstafur sie 24da Ar Soolar-Alldar: Ef eg tek nu einum færra; þad er ad skilia 23. af 28. þaa verda epter 5. byria þess vegna aa þeim seinasta Staf i Olldeñe, sem er C, aa fremsta Lid Laanga-fingurs hægre Handar, og les so Bokstafina aufram epter Stafrofinu i 5. Rwmum. Eñ nefne 2. i hvert fiorda siñ vegna Hlaup-Aarsens, aa þennañ Haatt C, D, E, F, G, A. þar fyrer er A Suñudags-Bokstafurin 24. Ar Alldar.

Aptur vil eg vita, hver ad sie

Suñu-

Suñudags-Bookstafurin 21. Aar Soolar-Alldar. 20. tekner af 28. laata epter 8. þar fyrer tel eg 8. Bookstafa Rwm afraň, og gef 2. Bookstafe fioorda hveriu a þeñan Haatt: C, D, E, F G, A, B, C, D E. og lende so seinast med Hlaupaars stafena D E, i 8da Rwme, sem eru Suñudags Bookstafer 21. Aar Alldar.

Eñ þad er adgiætande uñ Hlaupaars Stafina, ad sa sem fyrre verdur fyrer i Toluñe, þegar Stadar er numed, hañ hefur Sæted seirna til ad teikna Suñudagin. Þesse Adferd kañ ad soñu vel ad brwkast, eñ hun er miked seinleg, og lika adgiætslusom.

Þad þootte og gott Raad fordum Daga, a medan Gamle Stiill var i Blooma, ad finna Sunnudags-Bookstafen med þessu Verse:

Grav-

Grandia, Frendet Eqvus, Dum Cernit Belliger Arma.

Eñ þvi filgde nockurt Vandhæfe, þvi meñ urdu ad leſa þad upp aptur og aptur, þar til þeir komu æ þañ Lid, ſem heyrde til Soolar-alldar Aarenu, og hafa ſtoora Giætne æ þvi, vegna Hlaupæaraña, ad 2. Orden væru alltid gefin Viiſeſingrenum, ſiin i hvert ſiñ, þvi þad hefur ecke Hlaupæaren, med neinum Merkium adgreind fra Almeñum Aarum.

Hvoruga þeſſa Atferd get eg halld-ed rett hagkvæma, til ad fiña Suñudags Bookſtafin utanbookar, þo þær hafe brwkadar vered; Þar fyrer vil eg nu ſyna þad Medal er eg ſiadur uñ gat, og mier þiker laangt-um hentugra.

Art.

## Art. 7.

### Um Stefiñ med Samhendunum, et þena til ad fiña Suñud. Bookstafiñ.

Þad Medal, sem eg drap aa til forna, og mier þiker nærsta þenanlegt, til ad fiña Suñudags-Bookstaf, eru 7. Stef, med eins morgum Samhendum, hver þu hlitur ad læra fyrer utan, so þu kunner þaug uppaa þina 10. Fingur, so hlioodande sem epterfilger:

Bestar<br>
Aster ) Greider Fridar Eingell.

Daains<br>
Cains ) Brædi Arfar Gulldu.

Selur<br>
Elur ) Drottin Christni Blijda.

Andar<br>
Grandid ) Fordunst; Eymder Dvijna.

Caña<br>
Bañid ) Arger Glæpa Flockar.

Ecka

Ecka )
Drecka) Christi Børnin Allopt.

Gooder)
Frooder) Erfa Dijrdar Cronu.

Þesse 7. Stef, eru med þeim Hætte samsett, ad hvert eitt hefur i sier 5. Ord, sem byriast a 5. elijkum Bookstofum: Tvo þau fyrstu merkia alltid Hlaupaaren; eñ hin þriu almenn Aar. Upphafs-Stafurin hvers Ords fyrer sig, vijsar Suñudaags-Bookstaf þess Aars, sem þad a skilldt vid.

Og med þvi, tvo Samhendu Ord eru i Upphafe a hveriu Stefe, þa syna þau þa 2. Stafe, sem brwkast a Hlaupaarenu. Hin þriu, þa, sem heyra til almeñum Aarum millum Hlaupaaranna. Orden i þessium 7. Stefium eru alls 35. og haanga so saman hvert vid añad, ad þau andsvara i rettre Rod þeim 35. Bookstofum, sem 28. Ara Ollden, legud

logud epter Nya Stiil, hefur i sier.

Þeß er naudsin ad geta, ad Samhendurnar sem byria hvert Stef, hafa Svip af Echo, edur Dvergmæle: Er þad af Aasetninge giort, so þær, med siñe Stemu, miñe þañ sem les þær i Huganum aa þad, ad þær heyre til einu og hinu sama Aare, og meige þvi ecke skiliast ad, nema aa Alldamootunum.

## Art. 8.

### Um Nidurradan Stefianna aa Fingrum beggia Handañna.

Þad var venia tilforna, þegar Versed Grandia Frendet &c. var brwkad, og eñur þvilik, til ad fiña Suñudags-Bookstaf i gamla Stiil, þa var þad lesed yfer um þvera Hondena, og ætlad so til, ad oll Hlaupaaren skilldu lenda aa Viise-Fingrenum. Eñ mier hefur synst, ad laata Nidur-Radan Stefiaña vera med þad slag, ad þau verde byr-

iud

iud a Rot Viisefingurs vinstre Handar, og lesen so fram epter Lidunum, Fingur epter Fingur, so ad pad siidasta, sem bodar 28. Aar Soolaralldar, lender med pvi Moote, a fremsta Lid laanga Fingurs hægre Handar; Hvar af pad kemur, ad oll Samhendu-Ordin, sem votta Hlaupaaren, verda a Rootunum, en hin a lidunum, sem merkia almen Aar a þenan Hatt:

Bestar Aster a Root Viisefingurs vinstre Handar, Greider a effsta Lid sama Fingurs, Fridar a MidL. Eingell a fremsta L.

Daains Cains a Root Laanga Fingurs, Bræde a effsta Lid, Arfar a MidL. Gulldu a fremsta Lid.

Felur Elur a Root Baugfingurs, Drottin a effsta L. Christni, a Mid-Lid. Blijda a fr. Lid.

Andar Grandid a Root Litla Fing'

Fing. Fordunst ai effsta L. Eymder ai M. L. Dvijna ai fr. Lid.

Caña Bañid ai Root Litlafingurs hægre Handar, Arger ai efst. L. Glæpa ai MidL. Flockar ai fr. L.

Ecka Drecka ai Root Baugfingsomu Handar, Christi ai effsta L. Børnin ai Midlid, Allopt ai fr. L.

Gooder Frooder ai Root Laungafingurs, Erfa ai efst. Lid. Dijrdar ai M. L. Cronu ai fremsta L.

Vil eg nu, til eñ betre Leidarviisers, læta Hondurnar vera her uppmaaladar, med Stefiunum, so hver eiñ meige siaa, hvernin hañ ai ad lesa þau ai Lidunum, til ad finna Suñudags-Bookstafiñ. Og er þeß ad geta, med þvi Orden eru lesen frameptir ai Hendeñe, þa skal alltid nefna þad Orded fyrr, sem under stendur. Til Dæmis: Bestar Aster, eñ ecke Aster Bestar.

Art.


1 Yster Besiar
2. Greider
3. Fridar
4. Eingell
5 Cains Dains
6. Brædi
7. Arfar
8. Gulldu
9. Elur Felur
10. Drottin
11. Christni
12. Blijda
13. Grandid Andar
14. Fordungk;
15. Eymder
16. Dvijna.

## Art. 9.

### Adferdin ad finna Sunnudags-Book-Stafin a Fingrunum med Epterdæmum.

#### 1. Dæme.

Jeg vil fiña Suñudags-Bookstafin Ao. 1739. sem er 16de Vetur Alldar, (þvi ef eg kasta i burt 17. epter Cap. IV. Art. 4. 5. p. 118. 122. og legg 5. vid 39. þa verda þad 44. Kasta sidan i burtu 28. verda epter 16.) Fer þvi ad telia a Fingra-Lidunum fram epter, 1. 2. 3. 4. a Viisefingre. 5. 6. 7. 8. a Laanga-fingre. 9. 10. 11. 12. a Baugfingre. 13. 14. 15. 16. a Litlafingre. Verdur so seinasta Talan 16. sem merker 16da Vetur Soolaralldar a fremsta Lid Litlafingurs.

Sidan fer eg ad lesa Stefin med sama Moote, hvert epter añad, fram epter Lidunum, og seige: Bestar

Aster

Aſter a Root Viiſefingurs, og ſo Greider Fridar Eingill a Lidunum þar fram fra. Dains Ca-ins a Root Lœnga Fingurs, Brœdi Arfar Gulldu a Lidunum þar fyrer framan. Felur Elur a Root Baugfingurs, Drottin Chriſtni Blijda þar epter. Andar Grandid a Root Litlafingurs, og ſo hin Ordin þar epter, ſo eg lende med Dvijna a fremſta Lid Litlafingurs, hvar ed ſtanda 16. Og med þvi D er fyrſte Stafur i Ordinu Dvijna, þa er hañ Suñudags-Bokſtafur A. 1739. 16da Vetur Alldar.

2. Dœme.

Jeg vil vita, hver Suñudags Bokſtafur mune verda A. 1742. Verdur þa Vetur Solar Alldar (epter RegluñeC.IV.Art.4.p.117-120.) 19de: Tek þvi til ad telia a Root Viiſefingurs, eins og til forna, Lid af Lid, Fing-

G ur

ur epter Fingur, þar til eg kemst med 19. a Midlid Litla-fingurs hægre Handar. Byria sidan ad lesa Stefin eins og ádur, og lende med Orded Glæpa a greindum Lid litla Fingurs, sem syner, ad G sie Sunnudags Bokstafur A. 1742. Med þvi Orded Glæpa byriast a G.

3. Dæme.

Hver mun verda Sunnudags-Bokstafur A.1756. sta Vetur Alldar (epter Art.4.p.120.) Tek eg til ad lesa Stefin, epter Veniu, a Rot Visefingurs, og kemst med Dains Cains a Root Lævnga-fingurs; hvers vegna eg sie, ad þær mune verda Hlaup-aar, sa fyrre Bookstafurin D brwkast allt til Matthias Messu, en sa sijdare C, þar epter, Ared ut.

4. Dæme.

Jeg vil vita, hver verda mune Sunnudags Bokstafur A. 1820. Til ad

ad vita Vetur Solar-Alldar þad Aar, kasta eg i burtu 18. (epter Art. 4. p. 117.) eñ bæte 9. vid 20. so þad verda 29. kasta so i burtu 28. verdur epter 1. sem merker fyrsta Vetur Alldar; þarf þvi ecke leinge ad leita epter Suñudags Bokstafnum, hviad fyrstu Samhendurnar i Stefia Fleckunum Bestar Aster, heyra til fyrsta Vetre Solar-alldar, og er þvi audsluttad, ad þær verdur Hlaupaar, og B A Suñudags Bokstafer.

5. Dæme.

Ef einhver spyr ad, hver verda muneSuñudags Bokstafur A. 1946. þa svara eg: F. Þvi ad burtkostudum 19. legg eg 13. vid 46. (epter Art. 4. 5. p. 117-122.) verda 59. Og nær eg sleppe 30. blijfa epter 29. og 2. geimder, giora 31. kasta so i burtu 28. verda epter 3. sem merkia þridia Vetur Alldar. 3. standa a Mid-

 lid

lid Viise-Fingurs, og nær eg hef byr-
iad ad lesa Stefin, kemst eg med
Fridar a greindan Lid; þar fyrer
er þa F Suñudags Bokstafur.

## 6. Dæme.

Efi kañ sa ad koma, sem vill
skignast epter hver Suñudags Bok-
stafur mun hafa vered A. 1645. og
hver hañ verda mune A. 2045. Jeg
kasta burt tveimur þeim fyrstu Tol-
um, a bædum þessum Aarum, og
bæte 1. vid 45. sem epter verda; til
samans 46. kasta þvi i burtu 30.
Leifarnar 16. og 2. geimder, giora
18. Vetur Solar Alldar. 18. stan-
da alltijd a efsta Lid Litla-fingurs, i
hægre Hende; þar fyrer les eg Stef-
in allt þangad, Lid epter Lid, og
Fingur epter Fingur, og kemst med
Arger a greindan Lid: þar fyrer
hefur A vered Suñudags Bokstafur

A.

A. 1645. Mun og eiñeñ verda A. 2045. ef aa þarf ad ad hallda.

Hef eg nu vered so laangordur uñ þessa Methodum, ad fiña Solar-Olldena og Suñudags Bokstafiñ, bæde fyrer þaa Grein, ad þad er hid torvelldasta i Riimenu, og lijka þess vegna, ad Lesareñ skilie þess betur, hvernin hañ aa ad fara Stefin, med Samhendunum, sier i Nyt, þvi þad er vijst, þegar eiñ hefur fest þau vel i Miñe, þaa er þesse Adferd hin allra hægasta og fliotasta: Madur kañ i einum Svip, nær Vetur Solar-Alldar er fundeñ, ad hlaupa med Stefin fram epter Fingrunum, þar til hañ kemur ad Sæte þvi, sem Vetre Alldareñar er tileinckad, þvi þaa syner strax fyrste Stafu ñ i sierhveriu Orde Steffins, hvør ad sie Suñudags-Bokstafurin.

Eñ þad er vel merkiande, uñ All-

da-Mootin, ad i Utgøngu þeß fyr-
sta, añars og þridia Hundrad Ara
Flocks i hiñe miklu Olld nya Stiils,
þegar Leifarnar, ad burtkøstudum
tveimur þeim fyrstu Tølum fraa Ar-
tale Christi, verda 100. 200. og 300.
Hverium Arum þessar þreñar Sam-
hendur tilheyra; Dains Cains,
Felur Elur, Andar Grandid:
Þær skal sleppa hinu fyrra Ordenu
i hverre fyrer sig, eñ bihallda þvi
seiña, so sem siaa maa, ad giort
er i Tøbluñe, sem sett er bak vid Riim-
ed. Ordsøkeñ er þesse, ad greind Ar
verda alltijd her epter almeñ Aar,
og þurfa þeß vegna ecke nema 1.
Suñudags-Bokstaf, sem aa ad vera
C aa þvi 100ta, E aa þvi 200ta, og
G aa þvi 300ta.

Af þessum Hlaup aarana Mis-
breste kemur þad og eiñiñ, ad Nød
Stefiaña hlijtur ad slitna vid Ut-
gøngu

gongu nefndra Allda; Eñ sw Roskun varer þo ecke leingur, eñ þar til Solar-olldeñ byriast ad nyu, hverrar Upphafs Stef alltijd er þetta: Bestar, Aster, Greider, Fridar, Eingell. Ecke helldur giorer sw Skerding Stefiaña, neiñ Snecker Gagnsemdeñe, sem þau med sier fæza; Þvi Stafureñ, sar fyrste i Ordenu, sem epter kemur, syner alltijd Suñudags-Bokstaf nærstkomanda Aars.

Eñ verda mæ þo, ad einhver vilie hnidra þessum Stefia Flockum, og segia, þad sie lijted Gagn ad þeim, þar þeir fææ ecke alltijd ad hallda siñe Rod, þvi þegar hun brialest, vite Meñ ecke hvert Stefed taka skule.

Til Dæmis.

Fyrsta Seculum endast med þessu Stefe: Andar Grandid Ford-

unſt ꝛc. Þar epter plagar ad koma þetta: Caña Bañid ꝛc. Eñ her i Upphafe næꝛſtu Alldar kemur: Cains Bræde Arfar Gulldu, hvad ecke er vel mogulegt ad muna utan Bokar. Andſvar: Þeſſe Mootſogn gillder ecke neitt, þvi ſaa Leidarviiſer, ſem eg hef gefed til ad fiña Ar Soolar Alldar, fœrer Mañeñ jafnvel blindande, ecke ſijdur eñ Þrꝛadur Ariadnes fordum Theſeum i gegnum Hws Vølundar, til Sunnudags Bokſtaffſens. Stefid, ſem hañ ſkal hitta verdur fyrer hønum, hvert hañ rꝛanckar vid þvi eda ecke. Þvi þegar eg legg 5. vid 1701. þaa verda þad 6. ad burtkeſtudum 17. og ſyna 6tta Vetur Alldar, hverium æfenlega ſvarar Orded Bræde i Stefinu, Dains Cains Brædi Arfar Gulldu.

Og hvar ſem þetta Ord finſt i

heille

heille 400. Ara Olld Nya Stiils, þaa teicknar þad jafnan 6tta Vetur Soolar Alldar.

Sama er ad segia um̄ Roskun Stefianna añarstadar aa Allda-Mootunum.

# Cap. V.

## Undervijsun um̄ Sunnudags-Bookstaf og Soolar-Olld þeirra Catholisku, item Wrkastz-Dagana, so Meñ siaae þeirra Adferd og Underbwning til ad fiña hræranlegar Hatijder, ef nockur villde helldur brwka þeirra Praxin.

### Art. 1.

Adur eñ jeg skil vid þessa Materiu, verd eg ad gefa til Vitundar, hvernin Jesuiten Gaspar Schottus syner, med uppdregnum Höndum, Adferdena ad fiña Soolar-olld hina

Miñe, og Suñudags-Bokstaf Nya Stijls a hveriu Aare, so Lesareñ meige wrskurda med sialfum sier, hver Vegureñ vera mune greidare, og maa hañ gaanga so þar epter, hvern sem honum fellur betur i Sied.

Þeir Catholisku i sijnum Kyrkiuaars Reikningum, mida Takmørk hiñar Miñe Soolar Alldar, vid øñur Aar Christi, eñ eg i þessu Fingra-Riime; þvi þeir laata heñar 5. Aar gaanga undañ þeirre fyrstu Tetracosieteridis Centuria; 9. undan añare; 13. undañ þridiu; 17. undañ þeirre Fiordu, so ad Aar Christi 1601. vill vera hid siøtta. 1701. hid Tiunda. 1801. hid 14da. 1901. hid 18da Aar Solar Alldar; Hvers vegna alltid verdur stor Mismunur a mille þeirrar Solar-alldar, sem þeir brwka og miñar, i Tillite til Aartals Christi, so sem siaa maa af þeirre Hond, sem her er uppdregin. Ut-

# Utskijring yfer Hondina.

o a fremsta Lid Viisefingurs, merker Hlaupaar, eñ 1. 2. 3. þar yferundan almeñ Aar a alldamootunum. 5. 9. 13. 17. a Midlidunum, merkia Soolaralldar Aaren i Utgongu 100. Aara Alldaña. Þær Tølur, sem þar eru fyrer nedan, merkia Aartal Christi, bæde a efstu Lidunum og lika Rootunum. Þegar þu villt nu vita, hvert ad sie Ar Soolaralldar a einhveriu Hundradasta Aare Christi, þa lijt rett frañundan Aartalenu til Toluñar, sem stendur a Midlidunum, hun seger til, hver ad sie Vetur Soolaralldar: Eñ ef þu reñer Auga til einhvers af þeim 99. Aarum, sem eru a millum hverra 100. Aara, þa kasta 28. i burt af þeim, hvad opt sem þu getur: So marger sem þa verda epter, so marga Fingur

skalltu

skalltu telia, yferum hvera Hönd-
ena, hvad epter añad, fra þeim
Fingre, sem Aartaled a stendur.

Til Dæmis.

Þu villt vita hvert ad sie Aar
Soolar alldar Ao. 1800. Þetta Aar-
tal stendur a Root Baugfingurs;
Ef þu lijtur nu fram̃ undan þvi,
þa finnur þu 13. a Midlid Baug-
fingurs, og þad er Aar Soolaralld-
ar Ao. 1800. epter Reikninge þeirra
Catholisku.

2. Dæme.

Vilier þu vita, hvert vered hefur
Ar Solaralldar A. 1693. þa lijttu upp-
undan 1600. sem standa a Root
Viisefingurs, þar sier þu a Midlid
sama Fingurs 5. Kastadu sidan burt
þrisvarsiñum 28. fra 93. verda epter
9. Taktu þeß vegna til ad telia fra
5. 9. Fingur, 6. 7. 8. 9. 10. 11. 12.
13. 14.

Þesse Tala 14. sem er hin 9da fra 5. merker Aar Soolar alldar Ao. 1693.

3. Dæme.

Jeg vil vita, epter Catholiskre Praxi, hvert verda mune Aar Soolar alldar Ao. 1746. Liit þeß vegna fram̄ undan 1700. og sie 9. a Midlid Laungafingurs: Kasta sidan i burtu 28. fra 46. verda epter 18. og so marga Fingur tel eg fra Langafingre, og seige: 10. 11. 12. 13. 14. 15. 16. 17. 18. 19. 20. 21. 22. 23. 24. 25. 26. 27. so verdur þa Talan 27. (18da fra 9.) sem merker Aar Soolaralldar Ao. 1746.

Þesse Adferd, ad fiña Soolar-Olld Nya Stijls, a þeim 99. Aarum, sem eru a millum Hundrads Flockaña, vyrdest mier bæde seinleg, leidegiørn, og lika miog ad giætsluverd.

Er

Er þo ecke eñ þa bwed, þvi nu er epter, ad fiña Suñudags Bookstaf, sem heyrer til sierhveriu Aare Alldariñar; Leggur Schotte þañ Grundvoll þar til, ad Madur verde fyrst ad fiña Soolarolld og Suñudags Bookstaf Gamla Stiils; og þa þad er sked, þa skule telia so marga Stafe aufrañ i Stafrofinu, sem afgangs verda, þegar bwed er ad skipta Urkasts-Dogunum med 7. Eñ skillde Madur vilia vita, hvad marger þeir verda, a sierhverre eptersilgiande 100. Aara Olld, þa þarf þar til vissa Reglu.

## Art. 2.

*Praxis* ad fiña Soolar olld hina Gomlu a Fingrum vinstre Handar, epter þvi sem *Gaspar Schottus* fyrer skrifar.

Ut-


0.
700.
1400
9.
100.
800.
1500
25.
200.
900.
1600.
13.
I.
300.
1000.
1700.
17.
400.
1100.
1800.
5.
500.
1200.
1900.
21.
600.
1300.
2000.

## Utskijring yfer Hondena.

Honden, sem her er uppmaalud, hefur Artal Christi aa þremur Lidum Þumalfingursens, og fioorum Rootum hiña fiogra, so sem siaa maa. Tolurnar 9. 25. 13. utañ vid Þumalfingureñ og 1. 17. 5. 21. aa efstu Lidum Viisefingurs, Laangafingurs, Baugfingurs og Litlafingurs, merkia Soolar alldar Aaren, i Utgaungu þeirra 100. Aara, sem skrifud eru hiaa, og fyrer nedan hveria þessa Tolu.

So ef þu villt fiña Vetur Sool aralldar hiñar Gomlu aa einhveriu Hundradasta Aare, þa stendur þar strax Talan hia, einhver af þeßum Sio, 9. 25. 13. 1. 17. 5. 21. sem merker Aar Soolaralldar: Eñ ko ne fyrer eitthvert Aar af þeim 99. sem eru aa millum Hundrads-Flockaña, þaa

þa ſkal kaſta ſo opt 28. fra þeim, ſem ſke kañ, þad ſem epter verdur, ſkal leggia vid Toluna, ſem ſtendur hia, eda fyrer ofan Aartaled: Verde þa ecke Summan yfer 28. þa er þad Vetur Soolaralldar; Eñ verde hun meire, þa ſkal kaſta burt 28. þad ſem þa verdur epter, er Aar Soolaralldar hiñar Gomlu.

Til Dæmis.

Eg vil vita, hvert verda mune Aar Soolaralldar hiñar Gomlu Ao. 1800. uppyfer 1800. að effſta Lid Længafingurs ſtanda 17. og þad verdur Aar Soolaralldar Ao. 1800.

2. Dæme.

Hvert mun verda Aar Soolaralldar Ao. 1986? að effſta Lid Baugfingurs uppyfer 1900. ſtanda 5. hveria eg geime. Kaſta ſijdan i burtu 28. fra 86. þriſvarſiñum, verda epter 2. vid hveria eg bæte 5. geimdum, giora

giora 7da Vetur Soolaralldar hiñar Gømlu Ao. 1986.

## Art. 3.

Þegar Aared er funded, meiga Meñ og so fiña Suñudags-Bookstafiñ epter sama Stiil, þad kañ ad ske med tveimur uppdregnum Høndum at þennan Hætt, sem epterfilger,


2. E.
3. D.
4. C.
5. B.A.
12. G.
13. F.E.
14. D.
15. C.
21. C.B.
22. A.
23. G.
24. F.
1. G.F.
11. A.


6.
G.
16.
B.
25.
E.D
7.
F.
17.
A.G.
26
C.
8.
E.
18.
F.
27.
B.
9.
D.E
19.
E
28.
A.
10.
B.
20.
D.

# Utskijring Handaña.

A 10. Fingrum þessara tveggia Handa, eru skrifud 28. Aar Soola-alldar þeirrar Gomlu, og Sunnudags-Bookstafuren fyrer nedan hvert Aar, þarf þeß vegna ecke añad ad giøra, eñ fiña Aared aa Hondunum, hveriu ad Suñudags-Bookstafuriñ filger.

Nu vil eg itreka þau fyrre Dæme, med hverium synd var Adferdin ad fiña Soolar-Olld Nya Stiils, epter Catholiskre Viisu.

Adur er lioost giert, ad Ao. 1800. mune Aar Soolaralldar verda hid 13da. Eñ epter gamla Stiil 17da. Giæte þvi ad 17da Aare Soolaralldar aa þeim uppdregnu Hondum, og sie, ad under 17. aa Baugfingre hægre Handar, standa Bookstaferner AG.

[Nu

Nu med þvi Urkasts-Dagarner verda þa 12. tek eg 7. af, og skil epter 5. Tel sidan 5. Bookstafe aa-fram i Stafrosinu, fra G. sem er sa seirne Hlaupars-Stafur, epter Gamla Stiil Ao. 1800. og lende med Toluna aa E. og þad verdur Suñu-dags Bookstafur Ao. 1800.

Ao. 1693. er Aar Soolaralldar Nya Stiils funded hid 14da. Eñ epter Gamla Stiil hefur þad vered 22ad. Þvi nær eg kasta þrisvarsiñ-um 28. fra 93. verda epter 9. Þar vid lagder 13. sem standa hia 1600. aa Þumalfingre uppdreigiñar Hand-ar, giora 22. Suñudags-Bookstaf-urin aa Laangafingre Vinstre Hand-ar, under 22. er A. Urkastsdagarner 10. fra hverium eg tek 7. og verda epter 3. Tel þvi 3. Bookstafe i Stafroofenu aafram fra A, og lende

aa

a D. sem var Suñudags-Bookstafur Nya Stils Ao. 1693.

Med þridia Dæme er og so adur funded, ad A. 1746. mune Aar Soolar Alldar verda 27da epter Gamla Stiil. Epter Nya Stiil verdur þad 19da. Suñudags Bokstafur a Midlid Viise-Fingurs hægre Handar E. Urkasts-Dagarner 11. Þar fyrer tel eg 4. Bookstafe i Alphabeto fra E, og lende a B Suñudags Bookstaf Nya Stiils A. 1746.

## Art. 4

### Um̃ Urkastz-Dagana.

Vantar eñ ad læra, hvernin Dies exemptiles, edur Urkastz-Dagarner Nya Stiils skule fiñast, eitt Seculum epter añad, vilie Madur vera fullnuma i þvi, ad geta leidt i Lioos Suñudags Bookstaf sierhvers Aars, epter Nya Stiil, med

þeim

þeim Hætte, sem Jesuitarner fyrer-
skrifa. Schotte syner þañ Veg og
so, med eiñe uppdregeñe Hond mik-
ed henduglega, af hverre audvellt
er ad nema þennañ Post, ad vita
hvad mørgum Døgum burt eige ad
kasta aa hveriu Seculo, so Litera
Dominicalis verde funden.

Honden er þesse.


1700.
I.
1800.
2.
1900.
3.
2000.
2100.
4.
2200.
5.
2300.
6.
2400.
2500.
7.
2600.
8.
2700.
9.
2800.
2900.
10.
3000.
11.
3100.
12.
3200.

## Utskijring Handariñar.

Hver ein stærre Tala a ollum Lidum Fingraña, med Notunum, merkia Aartal Christi; Eñ þær smærre, sem under standa, merkia Urkasts-Dagana, og syna hvad marger þeir sieu a þessu og epterkomande Seculis: þarf so þesse Kensla aungva Upplysing framar, þvi þesse Postur er audskileñ.

Tam labor est ingens, Elementum prodere Solis,
Schottus ut annorum tempora sacra putet.

So miked Erfide kostar þad Schottum, ad fiña Suñudags Bokstaf Nya Stiils, uppa þad hañ gete wtreiknad Kyrkiu-aarsens helgar Tiider. Og hvad laungsaman og seinlegan Veg þesse Haalærde Madur lagt hefur, til ad uppgøtva Suñu-

dags Bookstafen ⁊ þar er hiñ þo laangtum leingre og ordugre / sem sa nafnfræge Christophorus Clavius vill / ad Meñ gaanga skule til ad naa semu Gagnsemd; kvedur so ramt ad i þeirr: Sok / ad Schottus, sem er annars af sama Societete, veigrar sier ecke vid / Organ. Math. pag. 395. ad kalla Adferd Clavii i sogdu Efne intricatissimam & difficillimam.

Maa nu Lesareñ sialfur dæma i Huga sijnum / þegar hañ hefur yfervegad sijnda Praxin þeirra Catholisku / hvert honum þiker hun ecke nockud torvelldare / og utheimta stærre Vareygd i Verkenu/eñ su/sem honum hefur vered her ad framan fyrer Sioner sett / i þessu Fingra-Rijme. Jeg voga ad segia / þott eiñ Meistare wr Rom fære ad reina Kapp uñ þetta Lærdoms Sticke vid

Leikm

Leikmañ her a Lande, sem hefde vel numed mijna Fyrersogn, og skyllde hvorugur hafa til Verksiens añad eñ sijn eigin Briost og naktar Hendur, þa yrde hañ ecke komin a midia Leid, þegar Vor-Lande hefde nad Markinu og Hlaupid fullkomnad; Þo sæst Mismunur Methodi eñ framar, ef þeir ættu, hver med sijnu Lage, ad finna Paska, og adrar þvilijkar Tijder: Þvi þa Vitskugrein hefur eingin af Jesuitum vogad sier til, so eg vite, allt til þessa Dags, med Fingra-Reikninge ad tentera.

Eñ nu vil eg iñan skams, sijna þa Atferd, hvernin Hátiderna skulu a Hondunum fundnar verda, þegar eg hefe nockud ádur skrifad, uñ Viku Bokstafina, og Hátijda-Terminid.

# Cap. VI.

## Um̃ Siø Vikudaga Bokstafe.

Sitt þad, sem giörer stora Fyrergreidslu i þvi, ad fiña Hræranlegar Hatijder og Messur Arsens aa Fingrunum utan Bokar, er ad vita giörla og festa i miñe, hverniñ ad Vikudaga Bokstaferner skulu standa aa Fingra-lidunum; Þvi 7. þeir fyrstu i Stafrofenu, nefnilega A B C D E F G hafa langsamlega Arwkader vered til ad boda 7. Daga hverrar Viku, eitt Aar epter añad: Almeñilega kallast þeir Suñudags Bokstafer, þvi þeir skiftast um̃ aarlega til ad merkia Suñudageñ, sem er hiñ ypparste Dagur Vikuñar, tileinkadur Gudlegre Þionustugiörd Þeß er og ad gieta, ad vier høfum 7. adgreinanleg Kieñemerke, aa hverium vorum Fingre, þad eru þriu Lida-

moot

moot, innañ Handar, og 3. Hnw-
ar utañ Handar, tilsamans 6. og 7.
med Topp hvers Fingurs, sem æ ad
reiknast i þessu Falle fyrer eiñ Lid.
Hverium þessara 7. Lida, hafa þeir
fordum eiñ af ædurgreindum Viku
Bokstøfum tileinkad, og þanniñ
nidursett, ad A skylde tilheyra
fremstu Hnwum Fingraña utan
Handar, B Midhnwum, C efstu
Hnwum, D efstu Lidum iñañ Hand-
ar, E Midlidum, F fremstu Lidum,
og G Toppunum, so sem epterfylg-
iande Vijsa Hlioodar:

A B C skal Hnwum hiæ,
Higg ad þvi eñ froome,
D E F set innañ æ,
Efst sie G æ Goome.

So þegar Madur æ ad reikna Tij-
ma og Daga til einhverrar Hætijd-
ar, eda Merkedags, og Talid endast æ
einhverium þessara Lida, teiknudum

med Bokstaf, þaa veit hañ strax, hver Dagur Vikuñar þad er, þvi alltijd er einhver af þeim Suñudags Bokstaf-ur, og ef eg lende ecke med Taled aa siaalfum Suñudags Bokstafnum, þaa sie eg samt hvad marga Lide eg þarf ad telia aafram, þar til eg kem ad honum.

Þetta vil eg nu giør syna, med Uppmaalan þeirrrar vinstre og hægre Handar, samt Bokstøfunum, sem tilheyra hverium þeirra Lid fyrer sig; Verda Meñ i þessu Verke, ad brwka og so minsta Fingur hægre Handar, þeß vegna, ad hverke kemst þad sijdasta Gillinitals Orded Siotte, sem geingur af 28. Fingra Lidum vinstre Handar vel fyrer aa Hendeñe, þegar epter þvi skal reikna Tijmana, Siotta Vetur Tungl Alldar, og ecke helldur faa Vikudaga Bokstaferner (aa medal hverra eiñ

skal

ſkal alltijd vera Suñudagſens Kieñe-
merke) þar vel Rum, ſo ſkilianlegt
verde, þegar telia ſkal til Hœtijd-
aña, og reikna, uppa hvern Vi-
kudag, ſierhver Meſſa fellur; Item
hvad marger Suñudagar giora In-
tervallum hid Meira og Miña; Er
þvi vonlegt ad Verked ſœe ſliootare
og lidugre Framgœang, ef miñſte
Fingur hœgre Handar brwkaſt eiñeñ
œaſamt med hinum fiorum i þeim
Poſtum, ſem œadur er uñ:gieted:
Eru hier Fingurnar uppdregnar, bæ-
de iñañ og utañ Handar, ſo Efned
verde liooſara: Eñ Epterdœmeñ
uppa Gagnſemdena koma fram
ſijdar.

Uppmaaladar Hendur hier ad framan, eru einasta til þeß, ad syna, hverninn Vikudaga Bokstaferner eiga ad standa aa Fingrunum.

# Cap. VII.

## Art. 1.

### Fyrerspögn þar umm, hverninn Tungls Terminer skal standa aa Fingra-Lidunum til ad finna Hatijdernar.

Nu hefur kendt verid Cap. II. Art. 3. pag. 88. 89. hver Sæte Gillini-tølurnar skule hafa aa Fingrunum, so men kunne af þeim ad vita, nær Tungled springur wt i sierhverium Maanude; En hier aa ad skie ødru-visse Nidurradan Aurei numeri, en þar var Raad fyrer giort, þvi Tungls Termined Fioort, skal nu standa

standa ꝏ efsta Lid Vijse-fingurs, og so hvert Gillinitals Orded epter añad, Lid epter Lid, Fingur epter Fingur, bæde iñañ og utañ Handar, Þar til þad seinasta, nefnilega, Siot-te, kiemst ꝏ efsta Lid, og Midlid Litla Fingurs hægre Handar, so sem hier uppdregnar Hondur syna.

Handaña Uppmꝏlan.

Lijka sem Gillinitals Ordeñ hier standa a Fingrunum, so a ttu og so ad lesa þau uppa Lidena, þar til þu kemur ad Gillinitale þeß Veturs Tungl-alldar, a hverium þu villt fiña Hatijdernar; Sijdañ þarftu ecke ad giøra aňad, eñ byria a efsta Lid Vijse-fingurs ad telia 18. og so fram̃ epter til Nijuvikna-Føstu: 22. til Paaskadags, og 10. til Hvijtasuñu, og þad allt a Gillinitals Lideñ; Talañ, sem fellur uppa hañ, merker Hatijdar Dageñ i Manudenum, ef Suñudags Bokstafureñ heyrer til þeim sama Lid; Eñ ef ecke, þa hlijtur þu ad telia fram̃ epter leingra a Lidunum, þar til þu kemur ad Suñudags-Bokstafnum; Sw Tala, sem þa er ordeñ, syner þier Dag Manadarens, uppa hvern Hatijdeñ fellur.

Hvert sem þad kañ ad vera Nijuvikna

vikna Fasta i Januario, eda Februario; Paaskar i Martio, eda Aprili: Hvitasuña i Majo, eda Junio. Og er þess alltijd ad giæta, ef Talañ verdur fyrer iñañ 31. þaa verdur Hatijden i þeim fyrra Maanude hier töldum; Eñ ef hun gengur yfer 31. þaa skal kasta þeim i burtu, þad sem þaa verdur epter seger til, uppaa hvern Dag þess siidara Maanadar Hatijdeñ fellur.

Art. 2.

Undervijsun ad finna Hatijder Aarsens.

I. Nijuvikna Fostu.

Hingad til hefur þad allt greinilega vered framsært, ad miñe Meiningu, sem þienar til Underbwnings, ad fiña hræraûleaar Hatijder Arsens, 1. hverniñ Tungl-alldar Arid skal uppleitast Cap. II. Art. I. p. 69. sqq. 2. Solar Olld hin Stærre, Nya Stiils. Cap. IV. Art. 3. pag. 115. 3. Soolar Olld hin Miñe, af þeirre Stærre,

Stærre, Cap. IV. Art. 4. pag. 117.
4. Suñudags Bokstafur sierhvers Aars, Cap. IV. Art. 7. 8. 9. pag. 137.
5. Hverniñ Vikudaga Bokstaferner eiga ad standa a Fingrunum iñañ og utañ Handar, Cap. VI. pag. 177.
6. Gillinitals Ordeñ til ad fiña Hatijdernar. Cap. VII. Art. 1. p. 180. sqv.

Nu fylger nærst epter, ad syna þad hellsta Lærdoms Sticke i ollu Rijmenu, vid hvert sa Hálærde Gaspar Schottus hefur gesest upp i sijnu Organo Mathematico p. m. 412. og ecke treist sier til, ad gefa skiliañlegar Reglur þar uñ, hverniñ Njuvikna Fasta og adrar Hatijder skule árlega a Fingrunum fundnar verda; Eñ þad skal ske a þennañ Hatt. Jeg les Gillinitals Ordeñ a Fingra Lidunum, so sem ádur er umgeted: Byria sijdañ a efsta Lid Vijse-fingurs, og so uppa Topp, og ofañ a

Hnwñ

Hnwa, hinumeigiñ, eins lijka aa Midsingre, og so hverium epter aññ þar til þad Ord kemur, sem merker Tungl-alldar Vetureñ; þar nem eg stadar, og legg i Miñe aa hverium Lidnum þad var, tel so alla Lidena fraa Upphafe; sw Talañ, sem þaa fellur uppaa Gillinitalid, merker Dag Januarii eda Februarii, aa hverium Nijuvikna Fasta kemur, ef Suñudags Bokstafur Arsens (sem alltijd situr aa einhverium Lid sierhvers Fingurs) heyrer til þeim sama Lid; Eñ sie þad ecke, þaa hliitur þu ad telia Lidena fleire iñañ, eda utañ aa Fingrunum, þar til þu kemur aa Suñudags Bokstafs Lideñ. Talañ sem þu hefur þaa feinged, vottar Dag Januarii, uppaa hvern Fastañ fellur, ef hun er fyrer iñañ 31. Eñ sie hun yfer, þaa kasta burt 31. Tel sijdañ ad nyu 1.2.3.4.&c. þar til þu kem

kemur ad Suñudags Bokstafnum: Suña þeirrar Tölu seger þier, at hveriumDeige Februarii Nijuvikna Fasta kome. Þeß er ad giæta, ad ut Hlaupare, skal ecke tileincka þañ Lid Nijuvikna föstu, sem Gillinitaled stendur at, þott þar sie Sunnudags Bokstafur, helldur skalltu bæta 7. vid Talid, eda telia at sama Lid nærsta fingurs; su talañ, sem þa kemur upp, vottar, uppa hvern Dag Mánadar Nijuvikna Fasta fellur, þegar so astenst. Dæmeñ syna þetta liosara.

1. Dæme.

Jeg vil vita, nær Nijuvikna Fasta kemur Ao. 1739. Gillinitaled er þa 11. Sunnudags Bokstafur verdur D. Set eg nu Gillinitaled Fiort at ˙ffta Lid Visefingurs innañhandar, þrid: at Midlid -je, at fremsta Lid, Ell: at Toppinum, sem er

Gillinital Arsens 1739. Tel so 18. a effsta Lid Viisfingurs, 19. a Midlid, 20. a fremsta Lid, 21. a Toppinum, og med þvi þar er ecke Sunnudags Bokstafureñ D, tel eg ofañ epter Hnwunum utanhandar, þar til eg kem ad D. a effsta Lid innañhandar, er þa Talañ ordeñ 25. Og med þvi hun er fyrer iññan 31. þa sege eg, ad Nijuvikna Fasta kome þañ 25. Januarii Ao. 1739.

Annad Dæme.

Jeg vil vita nær Nijuvikna Fasta kemur Ao. 1743. Gillinitalid 15. Sunnudags Bokstafur F. Giore eins og adur, Byria ad lesa Gillinitals-Ordeñ Fiort &c. a effsta Lid Viise fingurs, og so hvert Ordid epter annad, a fingrunum iññañ og utañ Handar. þar til eg lendi med Gillinitalid Fimt (15.) a midhnua Baugfingurs utan handar.

Tek

Tek eg þei til ad telia 18. a efsta Lid Viſſefingurs, og ſo Lid af Lid, Fingur epter Fingur, þar til eg kiemſt med 37. a Midhnwa Baugfingurs. Eñ med þvi þar er ecke Sunnudags Bokſtafnreñ F. tel eg 38. a effta Hnua Baugfingurs, 39. a effta Lid Litlafingurs, 40. a Midlid, 41. a fremſta Lid Litlafingurs innañ handar, hvar ed F. ſtendur: Og med þvi Talañ hleipur yfer 31. þa kaſta eg i burtu 31. verda epter 10. Sege þvi, ad Niiuvikna Faſta kome 10. Februarii Ao. 1743.

Þridia Dæmi.

J þridia ſiñ vil eg vita, nær Niiuvikna Faſta muni koma Ao. 1772. Gillinitalid 6. Sunnudags Bokſtafer E. D. Adferdeñ er alltid hin ſama; jeg byria med Fiort, a effta Lid Viiſe Fingurs: Les ſo Gillin-

Gillinitals Ordeñ Lid af Lid, Fingur epter fingur, þar til eg kemst med Siot (sem merker 6ta Vetur Alldar) a efsta Lid Litlafingurs hægre handar. Byria so ad telia 18. a efsta Lid Vijsefingurs; sidañ Lid af Lid, Fingur epter Fingur, þar til eg kemst med 46. a efsta Lid Litlafingurs Hægre Handar: Eñ med þvi þar er ecke Sunnudags-Bokstafureñ E. fer eg leingra upp epter, og fiñ hañ a Midlid sama Fingurs, verdur þar Talañ 47. Eg kasta i burtu 31. verda epter 16. sem merkia 16da Februarii, og þar kemur Nijuvikna Fasta Ao. 1772.

## Fioorda Dæme.

Mier er Fijsn ad vita, nær Nijuvikna Fasta mune koma 1828. sem er Hlaupaar, 5ta vetur alldar. Sunnudags Bogstafur verdur þa sa fyrre F. eñ sijdare E. Byria þvi,

eins

eins og vant er, Fiort aa effta Lid Viisefingurs, og kemst med Gillinitaled Fim aa fremsta Lid Laanga-Fingurs: Hvers vegna eg tel 18. aa effta Lid Viisefingurs, 19. aa Midlid, 20. aa fremsta Lid, og so hvad af hveriu, þar til eg lendi med 27. þar sem Gillinitalid stendur. Eñ med þvi þetta er Hlaupaar, og Sunnudags-Bokstafureñ er aa sama Lid, og Gillinitaled stendur, þa bæti eg 7. vid, eda tel aa fram, þar til eg kem aa fremsta Lid næsta Fingurs; verdur þa Talañ alls 34. Kasta þvi i burt 31, fyrer Januarium, verda epter 3. sem merkia 3ia Februarii, uppa hvern Niuvikna Fasta fellur Ao. 1828. ef Gud de so þocknast.

## II. Ad Finna Paaska.

Adferdeñ, ad uppleita Paaska, kemur ad ollu Leite, samañ vid þa, sem

ſem i þeſſum Capit. Num. 1. var fyr-
erløgd, til ad ſiña Nijuvikna Jø-
ſtu, þvi einu fraaſkylldu, ad þar
ſem byriad er ad telia 18. aa fyrſta
Lid Viiſe-fingurs til Nijuvikna
Jøſtu, þar ſkal nu byria ad telia 22.
aa ſama Lid til Paaſka, og hallda
ſo aafram̃ þar til Gillinitals Sætid
verdur fyrer; Sum̃a beß Dags
vottar Paaſka-Dag, ef þar er Suñu-
dags Bokſtafur, hvert ſem er
Hlaup-aar, eda Almeñt Ar; Eñ ef
þar er ecke Suñudags Bokſtafur,
þaa ſkal telia Lidena aafram̃ leingra,
þar til komed er aa þañ Lid, aa hver-
ium Suñudags Bokſtafureñ ſitur.
Verde þaa Sum̃an 31. eda miñi, þaa
merker hun Paaſka-Dag i Martio;
Eñ verde hun meire, þaa ſkal ſleppa
31. Telia ſijdañ 1. 2. 3. allt aa Lid
SuñudagsBokſtafſens, Sum̃a þeir-
rarTelu merker DagPaaſka i Aprili.

Epterdæme uppaa Paaſka fundeñ.

Fyrſta Dæme.

Jeg vil vita, nær Paaſkar haſi komed A. 1723. Gillinitaled 14. Suñudags Bokſtafur C. Jer þvi fyrſt ad hyggia ad, aa hverium Lid Gillinitaled Fiort ſtendur, þad verdur ſtrax fyrer mier aa effta Lid Viiſe-Fingurs, og ef þar hefdi verid Suñudags Bokſtafureñ C, þaa hefdu þar komed Paaſkar, þad er ad ſkilia 22. Martii. Eñ med þvi þad er ecke, þaa ſege eg 22. aa effta Lid Viiſefingurs, 23. aa Midlid, 24. aa fremſta Lid, 25. aa Toppinum, 26. aa fremſta Hnwa, 27. aa Midhnwa, 28. aa effta Hnwa, og þar fiñ eg þeſs Ars Suñudags-Bokſtaf C. Þad fyrer hafa Paaſkar komed 28. Martii 1723. þvi Suma Toluñar er fyrer iñañ 31.

Aññad

Añad Dæme.

Jeg vil vita, nær Paaſkar muni verda A. 1744. 16da Vetur Tunglalldar, ſem er Hlaup-aar, Suñudags Bokſtafer E. D. ſaa fyrre til Matthias Meſſu, eñ ſaa ſeirni þadañ i fraa Ared wt. Jeg byria Gillinitals Ordeñ Fiort ꝛc. aa efſta Lid Viſſe-fingurs, eins og vant er, og lende med Sext aa Midlid Midfingurs; Tel þvi 22. þar ſem Fiort ſtanda, 23. aa Midlid Viſſe-fingurs, og ſo Lid epter Lid, þar til eg kemſt med 30. aa Midlid Midfingurs. Nu er þar ecke ſaa ſeinne Suñudags-Bokſtafur D, þar fyrer tel eg 31. aa fremſta Lid Midfingurs, og ſijdañ 1. 2. 3. ꝛc. þar til eg kemſt med 5. aa efſta Lid Baugfingurs, þar fiñ eg Suñudags Bokſtafeñ D, og þar koma Paaſkar, Dag 5. Aprilis A. 1744.

## Þridia Dæme.

Jeg vil eñ ſkignaſt epter, nær Paaſkar mune koma 1753. Gillinitaled 6. epter Handar-Regluñe Cap. II. Art. 1. p.69.ſqq. Suñudags Bokſtafur G. Cap. IV. Art. 9. pag. 144. Gillinitals Ordeñ byria eg alltijd i ſama Stad, aa effſta Lid Viſſe-fingurs, og les þaug ſo uppaa Fingurnar, þar til eg lende med Siøtt: aa effſta Lid Litla-fingurs hægre Handar, þvi þetta er ſaa ſijdaſte Vetur ſem i þeim er: Sijdañ tel eg 22. aa effſta Lid Viſſe-fingurs, og kemſt med 31. aa fremſta Lid Laanga-fingurs; Sleppe ſo þeirre Tolu, og fer ad telia ad nyu 1. 2. 3. ꝛc. þar til eg kemſt med 19. aa effſta Lid litla Fingurs hægre Handar; Nu er þar ecke Suñudags Bokſtafureñ G, þar fyrer tel eg 20. aa Midlid, 21. aa effſta Lid, 22. aa Toppinum, hvar eg fiñ fyrer mier

mier G. Þar fyrer koma Paaſkar þañ 22. Aprilis A. 1753.

### Fiorda Dæme.

Einhver kañ ad ſpyria ad, nær Paaſkar mune koma A. 1880. 19. Vetur Tungl Alldar Cap. II. Art. 1. p. 69. ſq. Sunudags Bokſtafer D C C. VI. A. 9. p. 144. Gillinitaled ſtendur aa Midhnwa Viſſe-fingurs: Tel þvi 22. aa efſta Lid, 23. aa Midlid, 24. aa fremſta Lid, 25. aa Toppinum, 26. aa fremſta Hnwa, 27. aa Midhnwa; eñ þar er ecke C; þar fyrer tel eg 28. aa efſta Hnwa, hvar C ſtendur, ſeger þvi Konſteñ, ad Paaſkar kome 28. Martii A. 1880.

## III. Ad fiña Hvijtaſuñu.

Hvijtaſuña verdur fundeñ med lijkum Hætte, ſem Paaſkar og Nijuvikna Faſta, og er eingeñ Munur nema ſaa, ad eg byria ad telia 10. aa

efſta Lid Viiſe-fingurs (þvi Hviitaſuña kemur fyrſt 10. Maji) tel ſo fram̃ epter Lidunum, þar til eg fin̄ Gillinitalid og Sun̄udags Bokſtafen og at þeim Lidnum kemur Hœtijden̄, an̄adhvert i Majo, edur Junio, epter þvi, ſem Fiollde Toluñar þad wtheimter.

Epterdœme, ad fiña Hviitaſunnu a Fingra-Lidunum.

I. Dœme.

Nær mun Hviitaſuña koma Ao. 1750? Þa verdur 3ie Vetur Alldar Cap. II. Art. 1. p. 69. Sun̄udags-Bokſtafur D. Cap. IV. Art. 9. p. 144. Gillinitaled Prid-ſtendur a Midlid Viiſe-fingurs, þar fyrer er ecke langt ad telia. Jeg ſege 10. a efſta Lid, 11. a Midlid, og med þvi þar er ecke Sun̄udags-Bokſtafur, þa tel eg leingra fram, og ſege: 12. a fremſta Lid, 13. a Toppinum, 14. a

ad fremsta Hnwa, 15. ad Midhnwa, 16. ad efsta Hnwa, og 17. ad efsta Lid Midfingurs, þar sinn eg D, þvi þad er ad øllum efstu Lidum Fingranna: Kemur þvi Hvijtasunna 17. Maji A. 1750.

2. Dæme.

Jeg vil vita, nær Hvijtasunna mune verda A. 1778. 12ta Vetur Tungl Alldar Cap. II. Art. I. Sunnudags-Bokstafur D. Cap. IV. Art. 9. Gillinitalid stendur ad Midlid Litla Fingurs innann handar. Byria þvi ad telia 10. ad efsta Lid Visse-fingurs, og kemst med 31. ad efsta Lid Litla-fingurs. Enn med þvi þar er ecke Sunnudags-Bokstafurenn, þaa fer eg ad telia uppaa ny 1. 2. 3. ꝛc. eins og adur er kendt, allann Litla-fingur af. Þar til eg lende med 7. ad efsta Lid Litla-fingurs hægre Handar, þar stendur D. Þess vegna kemur þar Hvijtasunna, ef Gud lofar, þann 7da Junii, A. 1778.

Fleire Dæme þarf ecke hier til ad leggia, þvi Adferdeñ maa vera Deginum liooſare, af þeim Reglum og Dæmum, ſem aadur hafa framfærd vered i imſum Stødum.

## Cap. VIII.

### Þridia Gagnſemd Fingra-Rijmſens, uñ Meſſu-daga Arſens.

#### Art. I.

Þridia hellſta Gagnſemd Fingra-Rijmſens er, ad uppgøtva, hverium Dege Maanadar og Viku, ſierhver Meſſu-Dagur, ſem nockud uñwardar, tilheyrer. Item, hvad marger Suñudagar verda epter Þrettanda til Nijuvikna-Føſtu, og fraa Heilagrar Þreñingar Haatijd til Adventu, aa hveriu

hveriu Atre, og þad med læengtum hægare, og leinpilegre Adferd, eñ Rijm-Meistararnir hafa hingad til, nockurn Tijma brwkad, og odrum fyrerskrifad.

Eñ til þeß fyrra hlioota Meñ ad brwka 12. Vijsur Jslendskar, giordar epter Tolu Maanada Arsens: Hafa þær so morg Atkvæde i sier, hver ein, sem Dagarner eru i hverium Maanude (eins og þær Latinsku til forna) eñ eru þo læengtum hagkvæmare, eñ Cisio Janus, þviad þær byriast aa somu Bokstofum og Maanuderner; Eru og eiñeñ ad Ordum og Meiningu skilmerkilegar. Vijsurnar hlijtur saa, sem ecke vill fara aa mis tiedrar Gagnsemdar, ad læra uppaa sijna 10. Fingur; Og nær hañ kañ þær vel, þarf hañ ecke helldur añad Medal eñ þær sialfar, til ad vita, aa hverium Bookstaf

Manuduren̄ byriast, þær hlioða sem epterfylger.

## JANUARIUS.

Ar nytt hoof Janus, Byrtest bræitt,
Barn, sem tigna Heidner hæitt,
med AnTONius Agnes geck,
en̄ Paulus Sioon af GUDe feck.

## FEBRUARIUS.

Dijr Maria hreinsast hier,
hun gat JEsum lijkan̄ sier;
prijder Stool og plantar Vor,
Petur, Matthias HLAUT Risr.

## MARTIUS.

Deyde Jonas Hola Hyrder,
Heiløg Christnen̄ Nafn han̄s vyrder,
Dægur hnijsiøfn BeNEdict ber,
Bodan Meyar EDTer fer.

## APRILIS.

Giæfan̄ Or Ambrosio,
Aprilis Leoni Tign bioo,

Magnus

Magnus vard Jarl, eñ Biskup Jon,
bar Marcus ORD Guds um̃ Froon,

## MAJUS.

Bæder Kroß; feck Bæl Jon gist,
bræ MaJUS Vertijd og Vist,
Hallvardur reinde harda Pijn,
Heitt med UrbaNO Sumared skijn.

## JUNIUS.

Eykur Junius opt Gras,
Eirna mest Barnabias,
Vitus Botolfs beded getur,
barst JoHANnes, deyddest Petur.

## JULIUS.

Good Maria Frændkonu fañ,
føgur lijdur Margret Daudañ,
fær Gud Sæl Þorlaks jafnañ sied,
JAcobs lijka, Olafs med.

## AUGUSTUS.

Cepham batt Augustus eiñ,

Elld leid Laurus Kyrkiu-Sveiñ,
Maria hafeñ, Hauſt byriar beſt,
BARtholomeus , Johañ lierſt.

## SEPTEMBER.

Fañ September miøg mæt Hnoß,
Maria fædd , hafeñ Kroß,
Dægur Lambertus lagar JOFN vel,
leider Sæl i Høfn Michel.

## OCTOBER.

A Fiøll October feiker Snioo,
fanſt ecke til þeß Calixto,
gløgt Lucas kende GUDſpiølliñ,
galls þeirra Simon og hiñ.

## NOVEMBER.

Dijrdlinga Hæritijd halld þu vel,
Helgañ Martein þat med tel,
kiæter Pavans KJÆR Frw Stand,
Clemenz; Poſtulañ teiknar And.

DECEM-

# DECEMBER.

Fengu Naad Barra, Niclas, Frw,
nijtur Sælu Lucia trw,
vid Solar hvørf Thomas Frid fañ,
Fædde Mey oß Gud OG Mañ.

Þegar þu villt nu vita, hverium Dege Manadar og Viku, ein, edur oñur Messa, sem Vijsurnar u..geta, er tileinkud, þaa skalltu lesa þaa Vijsu, sem Messuna i sier iñebindur, uppaa Fingurnar, med þad Slag, ad þu byrier hana aa þeim sama Fingurs Lid, og hennar fyrste Bokstafur tilheyrer, epter Cap. VI. p. 178. Og laater so sitt Atkvæde falla uppaa hvern Lid, fyrst Vijse-fingursins, iñañ og utañ Handar, sijdañ þeß leingsta Fingurs, med sama Hætte, og so hiña, sem epterfylgia;

þar til þu kemur ad þeim Messu Dege, er þu villt siña ; þañ sama Lid skalltu hugfesta, hvert sem hañ kañ ad vera iñañ, eda utañ aa Fingrunum : Telia stiðañ Lidena þadañ sem fyrst var byriad ad lesa Vijsuna, allt til þess Lids er Messañ fiell uppaa, þvi þad er heñar Dagur: Sijdañ, þegar Madur vill vita, uppaa hvern Dag Vikuñar ein Messa fellur, þaa skal hañ telia Vikudagana, fraa Suñudags Bokstafnum aa Lidum sama Fingurs, til Messu-Dagsens, so sem eptersylgiande Dæme syna.

1. Dæme.

Jeg vil vita, hverium Dege Januarii Paals Messa tilheyrer; Byria þvi, so sem aadur er fyrerlagt, ad lesa þessa hañs Vijsu : Ar nytt hoof Janus 2c. A fremsta Hnwa Vijse-fingurs utañ Handar, þvi þar er Sæte

Sæte Bokstaffins A, sem er fyrst i Januario, og sege, Ar aa fremsta Hnwa, Nytt aa Midhnwa, hoof aa efsta Hnwa; Viik siidañ aa efsta Lid Midfingurs iñañ Handar, og læt sitt Atkvæde fylgia hverium Lid, Fingur epter Fingur, og þegar eg er komeñ uppaa efsta Hnwa Litla-fingurs, med Orded Eñ, og mig þriitur þar Lide vinstre Handar, ad fara leingra aafrañ, viik eg yfer aa efsta Lid litla Fingurs hægre Handar, og þar kemur nidur Atkvæded Paal, sem merker Paals Messu, þessum Lid gleimi eg ecke, eñ fer ad athuga, hver Dagur Januarii þetta sie, med þvi mote, ad telia Lidena, fraa þvi eg byriade ad lesa aa fremsta Hnwa Viisefingurs vinstre Handar, verda þad 25. Lida-Moot, sem merkia 25. Ianuarii Daga; Er. þvi audsluttad, ad

Paals

Paals Messa er alltijd 25. Ianuarii. Nu sem eg vil giæta ad eñ framar, uppaa hvern Dag Vikuñar greind Messa (eda hver oñur) falle aa einhveriu Are, þaa er ecke annad ad giora, eñ ad hyggia ad, aa hverium Fingurs Lid sama Ars Suñudags Bokstafur stande, sem er alltijd hiñ fyrste i Vikuñe, og telia so fraa hønum aafram allt ad Lid Messunar.

Til Dæmis.

Nu i Ar 1737. er Sunnudags-Bokstafur F, sem situr aa fremsta Lid Litla-fingurs iñañhandar Cap. IV. p.178. þadañ tel-eg Viku-Dagana, aññadhvert med Nafne, og sege: Maanudagur (aa Toppinum) Þridiudagur (aa fremsta Hnwa) Midvikudagur (aa Midhnwa) Fimtudagur (aa efsta Hnwa) Føstudagur (aa efsta Lid iñañ Handar)

Ellegar

Ellegar þad, sem eñ er hægra, eg tel einasta Lidena til Messunnar, og byria at Sunnudegenum, at þennañ Hatt: 1. at fremsta Lid, 2. at Toppinum, 3. at fremsta Hnwa, 4. at Midhnwa, 5. at efsta Hnwa, 6. at efsta Lid iñañ Handar; Eñ sat Siotte i Vikudaga Talinu, er alltijd Fostudagur: Sat fyrste Sunnudagur, annar Maanudagur, 3ie Pridiudagur, 4de Midvikudagur, 5te Fimtudagur, 6te Fostudagur, 7de Laugar-Dagur.

So fellur þat Paals Messa uppat Fostudag nu i Ar, þvi F er Sunnudags Bokstafur. Sama Adferd heyrer til öllum Messum og Merkidögum, Ared um kring, nær Madur vill vita, hverium Dege Maanadar þær sieu tileinkadar, og uppat hvern Dag Vikuñar þær falle. Þessa,

Ad-

Adferd maa og so eins brwka, þegar einhver segier þad edur þad hafa sked, edur eige ad gioraſt aa vissum Maanadar Degie, og Meñ vilia vita, hver Dagur Vikuñar þad hafe vered, edur verda muni.

Til Dæmes.

Saa hrædelege Elldsbrune, sem tilfell i Kaupenhafn A. 1728. skal hafa byriaſt 20. Octobris; Vil þvi vita, aa hverium Dege Vikunnar haň hafe sked. Jeg leita fyrst upp Suňudags Bokstaf Arsens, med þad slag, sem Raad er fyrer giort Cap. IV. Art. 7. 8. p. 137. sqq. og kaſta i burt 17. þeim fyrstu tveimur Tolum af Artale Christi, verda epter 28. þar vid bæte eg 5. giora 33. af þeim dreg eg 28. verda epter 5. sem er Vetur Solar Alldar A. 1728. Les siidaň Stefeň Bestar Aster 2c. uppaa Fingurnar, og lende aa Root Laan-

Langa-fingurs (sem er sa fimte Lid-ur) med Samhenduna Dains Cains. So hefur þa Ared 1728. vered Hlaup-aar, og E sa seirne Suñudags Bogstafur, sem situr aa ef-stu Hnwum utañhandar. Fyrste Staf-ur Octobris er A, hvers Sæte er aa fremstu Hnwum Cap. VI. p. 178. Tel þvi fyrsta Octobris aa fremsta Hnua, og so Lid af Lid, þar til eg kemst med 20. aa fremsta Lid innañhand-ar (hvert sem eg bruka þar til eirn Fingur, eda fleire, þad er allt hid sama) og er þad Midvikudagur, þvi aa Toppinum er Fimtudagur, aa fremsta Hnua Fostudagur, aa Midhnua Laugardagur, og aa effsta Hnua Suñudagur. Eñ þad er fliootara, ef eg kasta i burtu af Octobris Dogum tvisvarsinnum 7. Byria so ad telia þa 6. sem ept-ir eru aa fremsta Hnua Visifing-urs,

